DRottenns vors
JESU Christi
Fædingar-
# Historia,

Med einfaldre Textans
Utskijringu.

Samannteken epter þeim Privatyger Fædingar Psalmum.

Af Sr. Lundsbókasafn

Stephane Halldors Syne,
Sooknar Preste ad Myrk-A
i Hørgardal.

---

Annad Upplag.

Selst innbundenn a Skrif Pappyr 12. Fiskum;
Enn a Prent Pappyr 10. F.

Prentud a Hoolum i Hialltadal,
Af Gudmunde Jons Syne,
Ared 1781.

Luc. 2. v. 11. 12.

J Dag er ydur Lausnareñ fæddur, sa ad er Christur DRotteñ, i Borgeñe Davids: Og hafid pad til Merkes, ad pier munud fiña Barned i Reifum vafid, og lagt vera i Jøtuna.



# Til Lesarans.

PAD dijrmæta og verduga Ord, ad JEsus Christur er openberadur i Holdenu, og komenn i þenna Heim, synduga Menn Sáluhoolpna ad giøra, er sá Gudhrædslunar Leyndardoomur, er opnar oss Fiaarsioodu Guds Owtseigianlegu Mystkunsemda vidur oss, þa vier eñ þa vorum hanus Ovíner, og fiarlæger Borgar-Rette þess andlega Israelis: Þad er þad dijrmæta verduga Ord, fyrer hvad vier, i Syndunum andlega dauder, endurlifnum aptur, til lifande Vonar, til ad þioona Gude alla vora Lijfdaga, kunnum verda Hluttakendur gudlegrar Natturu og Eilijfs Lijfs Erfingiar: Þad er sá Leyndardoomur, er uppærsa a þa sönu Gudrækne, er alldrei a ad vijkia wr vorn Hiarta, sem kann hugga oss i Daudanum, forsvara oss i Doominum, og leida oss iñ a Land lifande Maña, sem frelsar oss fra þeim ytstu Kvalaña Myrkrum, eñ færer oss til Aarsskiptes Heilagra i Lioosinu. Þar fyrer, þegar vier vilium reña Augum vorum til þess Eymdaña Afgruñ, i hvørt vier, vegna Syndareñar nidursocknir vorum, og a adra Sijdu ysirvega Afgrunn þess Guddoomlega Kiærleika, er sende siñ Son i Heimeñ, vorn Holde iklæddañ, uppa þad, aller þeir sem a hañ trwa, fyrerfareſt ei, helldur hafi eilijft Lijf; A og kañ oss, sem vilium Guds Born heita, og Samarfar Christi, ecker

yndælla vera, so sem eckert er nytsamlegra, eñ ad yfirvega Hðldteckin vors DRottens JEsu Christi, og til vor þar af flivtande Otal margar Guds Velgiorder.

Þetta hefur fyrer Augum hast, þad merkelega og liduga Skald, Æruverdugur og miøg Velgæsadur Kennemann, Sr. Gunnlaugur Snorra Son, nu Sooknar-Prestur til Helgafells og Biarnarhafnar Safnada, i sijnum Psalmum wtaf Fædingar Historiu vors DRottens JEsu Christi; Hvoria, so sem nockurskonar Leidarvijser, brwkad hefur Æruverdugur Guds Mañ, Sr. Stephan Halldors Son æ Myrk-A, i þessum sijnum Fædingar Hugvekium, hvoriar hañ sende mier fyrer nockrum Arum sijdann, i þeirre Von, eg kyñe hiaalpa til þess, ad þetta hañs Gudrækned Erfide verda mætte fleirum Guds Bornum til andlegra Nota: Og þar eg fiñ hiergreindar Hugvekiur ei einasta samhliooda Guds Orde, heldur til Lærdooms og Sidferdes Betrunar þienande, þa læt eg þær nu æ Prent wtganga; Med þeirre hiartanlegu Osk, ad DRottenn Dijrdarennar legge sijna rijkuglega Blessan til þessa Verks, hanns haaleita Nafne til Lofs og Dijrdar, og hañs Bornum til æskeleguftu Saalar-Heilla!

Skrifad æ Hoolum i Hialltadal, þann 25. Januarii 1771.

Gisle Magnuss Son.
Biskup Hoola Stiftes.

---



# I. Capitule.

## Um̃ Skatt-Skrifftena.



MJN Sæl! Lyptum nu um̃ Stund ockar Trwar Augum uppa þañ nij-fædda Jesum, þiñ himneska Brood-ur og Brwdguma, sem komeñ er i Heimeñ, til ad giora Syndarana sæluhoolpna, medal hverra þu mætt vel reikna þig hina mestu, 1. Tim. 1. 15. Og so sem hañ er i ollu gefeñ ockur og fæddur, Es. 9. 5. so lætum allt hvad med ockur er, alla innra og ytra Manns Krapta, fagna samhuga hanns bless-udu Fædingu og Auglysingu i Holldenu. Þetta er sa mikle Fognudur, sem Engelliñ bodar, og sked-ur er ollu Foolke. Aldrei hefdum vid, mijn Sæl, fenged neina rettkallada Glede-Stund, nema þet-ta blessada Barned Jesus, hefde ockur fædt og gef-ed vered; Verum ockur þvi ad taka so þessum Fog-nude, ad hañs Kraptur mætte iñþrickiast i Hiarta, Hugskot og Siñe; Gefum ockur þvi Toomstund til ad hugleida þetta blessada Fagnadar Efne. Eñ þar sem vid finnum uppa ockur so mikenn Van-mætt og Veikleika, til verdugrar Hugleidingar a þeim mikla Gudhrædslunnar Leyndardoom: Ad

Gud er opinnberadur i Holldenu, 1.Tim.3. 16.
Þvi allt hvad af Hollde er fædt, þad er Holld, Joh.
3.6. eñ holldlegur Madur skyniar ei hvad Guds
Anda tilheyrer, 1.Cor.2.14. Þær leitum Lids,
mijn Sæl, hiæ honum sialfum, sem er þad Lioos-
ed, er upplyser alla Meñ, komanda i þeñañ Heim,
Joh.1.9. Berum ockur wte uñ nija Ræd og
Dæd, i JEsu Fædingar Forþenustu. Aller
Mañsins Þænkar eru fræ Barndoome Onijter og
einkis verder; Eñ i Barnenu Jesu bijr oll Fylling
Guddoomsins lijkamlega, Col.2.9. og af hanns
Fyllingu, seger Johannes, hofum vier aller medtek-
ed Næd fyrer Næd, Joh.1.16. Þvi mun hann
læta siñ Nædar Krapt fullkomnast i ockar Van-
mætte, og siñ Barndoom ræda Boot æ ockar
Bernsku, er vid i hañs Otta og Elsku hyggium ock-
ur ad skoda og yfirvega hanns dijrmætu Forþen-
ustu. Eingeñ Skeinkur kañ ad hugfast nie talast
hæleitare, eñ sæ, er syndugu Mannkyne veitteft af
Fodur Lioosanna, þegar hañ gaf þvi sinn eingetna
og elskulega Son, hverium hañ lagde og alla Hlute
i Vald, bæde æ Himne og Jordu, Matth.11.27.
Þvi kann mannlegt Hiarta eingann Hlut ædre ed-
ur ypparlegre sier til Hugleidingar taka, enn þæ
Vijsdooms-fullu og Myskunar-rijku Rædstofun
DROtteñs, sem hañ fræ Eilijfu giort hefur uñ vo-
ra Sæluhialp i þessum Syne sijnum, Herranum
vorum JesuChristo. So sny eg þæ mijnu Mæle
til þijn, miñ Jesu, læt þijna himneska Næd blessa
mitt.

mitt Aform, og ſtioorna Hiarta mijnu og Mealſære, ſo hvad ſem eg hier um̃ tala og þenke, þad mætte verda þijnu Nafne til Lofs og Dijrdar, Amen.

## T e x t e ñ.

ENN þad bar til i þann Tijma, ad þad Bod geck wt fra Keiſaranum Auguſto, þad Heimureñ allur ſkylde ſkattſkrifaſt, og þeſſe Skattſkrift var hin fyrſta, og ſkede i þañ Tijma, þa Cyrenius var Landſtioornare i Syria. Og aller fooru ad lata ſkrifa ſig nidur til Skatts, hver til ſiñar Borgar. Pa foor og Joſeph af Galilæa wr Borgeñe Nazareth upp i Judæam, til Davids Borgar Bethlehem, af þoi ad hañ var af Hwſe og Kyne Davids, ad hañ lete ſkattſkrifa ſig med Mariu ſiñe trwlofadre Kvinnu, ſem var Olett.

PEſſarar Skattſkriftar, ſem Auguſtus Keiſare uppæbaud, hefur H. Ande læted Gudſpiallamannenn geta vid Jeſu Fædingar Sogu, vegna þeſs, ad af heñe vottaſt, ad Gydingar voru komner under añarlegt Vald, og hofdu nockurn Part miſt ſitt Frelſe, þar fra þeim var horfen Kongs Tignen og hin ypparſta Valdſtioorn, ſem þeirra eigenn Ættlegg Juda fylgt hafde, allt fra Da-

vids Dogum; Og þetta ætte øllum ad vera Mark og Mid Messiæ Hiingadkomu, so sem Jacobs Spaadoomur þar uñ hlioodar: Sw konunglega Spijra skal ecke burttakast fra Juda, nie heldur Læremeistareñ fra hañs Footum, fyrr enn Schilo kemur, Gen.49, 10. Veldes Spijran burttookst fra Gydingum, ecke laungu fyrer Christi Fædingu, enn Læremeistareñ, sem merker þad mikla Raad i Jerusalem, segia Meñ ad Herodes hafe afmaad a sama Are og Christur fæddest. So þegar Gydingar voru komner under añarlegt Vald, þa sende Drotteñ þeim þañ Hertogann, sem þa frelsa skylde af Valde Myrkraña, Col. 1. 13. og ei einasta Gydinga, heldur og einneñ Heidingia. Vier komunst aller i Adams Falle i Obærilega Skuld vid hiñ almattuga Gud, og urdum skattgylder under eilijfann Dauda, af þvi ad Adam, og vier aller i hanns Lendum, syniudum Gude þess retta Skyldu-Skatts Hlijdnennar. Þessu yfirlyser Løgmaaled segiande: Bolvadur vere sa sem ecke giører allt þad sem skrifad stendur i Løgmaals Bookeñe, Devt.27 26. Hefdum vier þvi orded ad gista eilijst Kvalaña Fangelse, nema añar Fullvedia hefde i Borgun fyrer oss genged; Hvørs vegna ad Sonur Guds, innrekeñ af breñande Elsku til vorrar Velferdar, took a sig Þioons Mind, fæddest under annarlegu Valde, jafnvel þo hañ hefde sialfur allt Valld a Himne og Jordu, Matth. 11, 27. giørdest Løgmaalenu underorpeñ,

vrpenn, og betalade so fyrer oss hinn sijdarsta Pening, med sinne Hlijdne, er hañ synde Fodurnum allt i Daudann, jaa, allt i Krossens Dauda. Phil. 2. 8.

O mijn Saal! Forundra þig i Hiartans Audmykt og Andagt, yfir grunnlausre Giædsku þijns himneska Fodurs og Skapara, er hann took þad vijsdoomsfulla Mykunar Raad, sem alleina duga kuñe þier og øllum Heime til Saaluhiaalpar, ad laata hañ, sem var Løgmaalsens Herra, giøraſt Løgmaalenu underorpeñ, og þo hann Løgmaaled uppfyllte i øllum Greinum, þaa ber hann samt þess Bølvan, til ad frelsa oss þar fraa, sem daglega briootum Løgmaaled, Gal. 3. 13. Hann var i Guds Mind, seger Paall, Phil. 2. 6. 7. þo hielt hann þad ecke fyrer Raan Gude lijkur ad vera, heldur mijnkade hann sig siaalfann, so hann med siñe blessadre Audmykt bætte fyrer vora Drambseme, og med siñe diwpu Nidurlægingu afrekade oss þaa allra betstu Uppheſd, sem er: Ad vier megum Guds Børn kallast, vier aller sem aa hanns Nafn trwum, Joh. 1. 12.

Texteñ seger: Ad Joseph hafe ferdast med Mariu upp i Judæam, til ad laata skattskrifa sig, epter Bode Keisarañs. Af þeirra Dæme maattu, mijn Saal, Hlijdnena læra. Hlijdne er betre eñ Offur, sagde Samuel vid Saul, 1. Sam. 15. 22. Eckert Offur var Gude þacknæmt i gamla Testamentenu, nema þad framfært være i

Hiartans Hlijdne: Hun er sꝏ Skyldu Skattur, sem Skaparenn krefur sier af Skepnunne; Lꝏt þier þvi eingann Hlut so skyldann vera, sem ad hlijdnast Bodum þijns Skapara; Og þꝏ hefur þu þad Offred tilreidt, sem honum þacknæmt er fyrer JEsum Christum, nær þad er upptendrad med Ellde Elskunnar til Guds.

Vier eigum ecke heldur ad gleyma þeim Skyldu-Skatte, sem vier eigum ad gialda Yfirvoldunum, er Gud hefur sett i siñ Stad ꝏ Jorduñe, og skipad ad syna þeim Hlijdne og Hollustu, hvers vegna hañ verdur sialfur þar med dijrdkadur, þꝏ vier, hañs vegna, veitum Heidur og Hlijdne hañs Þenurum, so sem Christur seger uñ Kennendurnar: Hver ydur heyrer, hañ heyrer mig. Hier ad auk þꝏ leggia Yfirvolden mikeð iñ hiꝏ sijnum Undersꝏtum, med þeirre vakande Umhyggiu, er þau bera fyrer þeirra Velferd, bæde lijkamlegre og andlegre, eins og einn Fader fyrer Bornum: Hvers vegna þau i Ritningunne kallast Fedur. Vert þvi ecke, christeñ Madur, so Oþacklꝏtur vid Gud nie hanns Umbods-Menn, ad þu med Naudung edur Tregdu wtelꝏter þꝏ Hollustu, sem þeim ber. Þvi hver hann mootstendur Valdstioorneñe, seger Pꝏll, Rom. 13. 2. sꝏ mootstendur Guds Skickan, eñ þeir sem i moote standa, munu yfir sig leida Dooms Afelle, þvi greiner hann liooslega, hvad vier sieum uñ skylduger Yfirvoldunum, segiande: Gefed þad hveriun sem þier skylduger erud, þeim

Skatt, sem Skattur heyrer, þeim Toll, er Tollur heyrer, þeim Otta, er Otte heyrer, þeim Heidur, sem Heidur heyrer. Eñ þu, Herra JEsu, sem vor vegna ert undergefeun ordeñ, og hefur oss til Epterdæmes Yfervaldenu Skyldur golded, Matth. 17.27. Virdstu ad styrkia Yfirvolden i ollum þeim Verkum, sem þau eiga i þijnu Umbode ad giora, og gef Undersætunum hlijdenn Hiortu, so ad vier, hver i sinne Kallan, stundum kostgiæfilega vora Skyldu i þijnum Otta, ad þijn verde Dijrden, og vor Velferden, Amen.

## 2. Capitule.

### Uñ Fædingu Christi og Reifana.

OG er þau voru þar, þa kom Tijmeñ ad hun skylde fæda, og hun fædde sinn frumgeteñ Son, og vafde hañ i Reifum, og lagde hann nidur i Jotuna, þvi ad þau hofdu eckert Rwm i Gesta Herbergenu.

MErk hier nu fyrst, mijn Sæl, O Rottenns vijsdoomsfulla Speke, einneñ hañs Oriwfanlega Trwfeste, sem alldrei hefur brugdest frá Eilijfd:. Med Skattskriftenne vottade Augustus Keisare sijn Yfirrad yfir Judum; Eñ þa somu liet Gud þena til þess, ad færa Messiam til sijns retta Fædingar-Stadar, sem ad var Bethlehem,

hem, epter þvi sem Spaamadureñ Micheas þad liooslega fyrer seger: Og þu Bethlehem Ephrata, þu sem ad ert lijtel a medal Þusunda i Juda, vt af þier skal mier koma sa, sem vera skal Herra i Jsrael, Mich. 5. 1. So kann hinn almaattuge Gud ad snwa øllum Hlutum sijnum til gooda, hafa Høndena med i Verkum og Athøfnum Mañaña, og stioorna þeim a þañ Haatt, sem þeir kanske eckert afvita og sijst tilhugdu. Laangt þookte Guds Mønnum i gamla Testamentenu ad þreigia epter Fyrerheitenu um Meßiam, þo kom þad fram a þeim sama Tijmañs Punct, sem þar til var aakvardadur i Guds Fyrerhyggiu, og þad med øllum þeim Krijngumstædum, sem Spaadoomarner greindu; Þvi Guds Fyrerheit meiga aldrei bregdast, og ecke eiñ Titell a Jord falla af hanns Ordum. Laattu þvi þitt Urræde, mijn Saal, vera þad sama i øllum Naudum, ad vona uppa Drotteñ, þvi Vonen lætur ecke til Skamar verda, Rom. 5.5. Vid hana maattu og skalltu liggia, so sem Obrigdult Lijf-Atkier i allre Areynslu.

Texteñ seger: Ad Tijmeñ hafe komed þad Maria skylde fæda. Þesse Mariu Tijme var Guds Myskunar Tijme, Mañkynsins Endurlausnar Tijme, allrar Veralldarennar Hialpræðes Tijme; Þvi a þeirre somu Tijmans Stundu opnadest sw Lijfsens Uppspretta, hvadañ floten er øll Naad og Blessan, øll Heill og Velferd, er syndugu Mañkyne hlotnast:- Þvi þar er eckert añad Nafn

Monnum gefed under Himnenum, i hveriu þeim byrie hoolpnum ad verda, utañ alleina Nafned Jesu, Act.4.12. Miñstu hier wt af, mijn Saal, aa Tijmañ: Tijmenn er Guds, þier, sem annad Avaxtar Fie, epterlaateñ, hvar af Renta verdur sijdar meir heimtud, þegar kemur ad Reikningskapar Tijdeñe. Varastu þvi ad eyda Tijmanum med Lete og Hyrduleyse, edur Ogudlegu Lijferne og vondum Verkum: Brwka so Tijmañ, medann hañ gefst, ad þu-þurfer ecke þar epter ad siaa med Angist, þaa Tijmeñ gefst ecke leingur. Þetta er þiñ Vitiunar Tijme; Medtak þvi ecke Guds Naadar Vitiun til Onijtis, þvi ad i þægañ Tijma bænheyrdehañ þig, og aa Dege Hiaalprædesins hiaalpade hañ þier, 2.Cor.6.1.2. Tijmañs Punctar standa i DRotteñs Hende, þad er ei verdt þaa ad vita; varastu þess vegna ad skygnast þar i fram yfir Hoof og Maata, med holdlegre Forvitne, edur ad vera hugsiwkur um epterkomande Tijma; Befala hid Okomna Drottne, og vona aa hañ, hañ mun þvi vel til Vegar koma, Ps.37.5. Sæll er saa, sem alltijd reiknar Guds Tijma vera siñ Tijma, hvert hann er til Glede edur Sorgar, og er aa Gledeñar Tijma varsæreñ, og aa Sorgaña Tijma þolgoodur, bijdande i Stodugleika Vonar og Trwar epter DRotteñs Hiaalpar Tijma, þvi þo hañ mege stundum lijda Undañdraatt, þaa mun hann samt komande koma og ecke tefia, þvi saa verdur aldrei til Skamar, sem bijdur DRotteñs.

Hug

Hun fædde siñ frumgeteñ Son. Þegar Satan horfade fra Gude, þa vtklakte hañ afskræmislegum Frumgetninge Syndar og allrar Olucku, hvar af Bolvan og Daude kom yfir Adam og alla hañs Nidia; JEsus Christur, sem komeñ er ad nidurbriota Diøfulsins Verk, 1.Joh. 3.8. er af Mariu Meyu boreñ og fæddur i Heim þeñañ, so sem himneskur Frumgetningur allrar Blessunar, hvar af Naaden og Lijfed er aptur komed yfir Adam og alla hanns Nidia, þvi hann er Frumgetningur medal margra Brædra, sijns Fødurs Kraptur, 1.Cor.1.24. til ad leida þa alla, sem honum teingiast fyrer Trwna, til Arfskiptes Heilagra i Liosenu, Col.1.12. Gud giæfe, ad vors Endurlausnara blessud Fæding bære hia oss þañ Avøxt, ad vor innre Madur endurfæddest til andlegs Lijfs i Trwñe og goodum Verkum, so hañ fyrer Krapt þeirrar skiru Guds Orda Mioolkur, mætte daglega Vøxtun taka i allre Gudrækne, ad vier fullkomeñ Madur yrdum, sa hañ er i Mæling fullkomeñs Aldurs Christi, Eph.4.13. Og þo vor Umminndan epter JEsu Mind, sem er Rettlæte og Heilagleike Sañleikañs, v.24. verde i þessu Lijfe ecke nema Haalfverk, vegna vors Holds Veikleika, og medfilgiande Spillingar, ad vier samt mættum i ødru Lijfe bera hana fullkomlega, þar sem Haalfverked mun Enda taka!

Þeñañ siñ frumgetna Son vafde Maria i Reifum. Blessud er Audmykt þijn, miñ Herra JEsu,

JEsu, ad ollu ertu ofs lijkur ordeñ, ad frateteñe Syndeñe; Sañarlega ert þu eina og hinn same, sem David syngur um, er hañ seger: Þiñ Klædnadur er Liosed sem þu ert i, þu wtbreider Himinenn sem annad Refiadar Tialld, Þs.104.2. þo giordest þu þurfinn almennelegra Reifa, þaa þu tookst aa þig Symdor vorar, til ad wtvega ofs þad Klæde, er hylia kynne vora andlega Blygdan.

Mitt Hiarta særest og aangrast, þaa eg hugsa til þess, hvad margt andstyggelegt Synda Askvæme eg aled hefe i mijnu Briooste, og reifad med holdlegum Þaunkum, Saaluñe til Meins og Skada; Eñ þad er mijnu Hiarta hin betsta Grædsla og Glede, ad þenkia aa þiñ signada Barndoom, sem var heilagur, hreinn og fraaskilenn Syndeñe, Ebr.7.2. þvi þad vard minne Saalu til blessadrar Umbootar allra siña Bresta og Bodorda-Brota, þvi med þijnu Sakleyse hefur þu fyrer mijnar Saker bætt, og med þijnu Rettlæte, rettlætt mig raanglaataañ.

Hun lagde hañ i Jøtuna, þviad þau høfdu eckert Rwm i Gesta-Herbergenu. Hvar var nu, miñ JEsu, þijn eilijfa Kongs Tign, sem Salomon seger ad Himnaña Himnar faae ei iñelukt, 1.Reg.8.27. ad þu hlijtur ad kreppast hier i einum Villudijra Stalle? Vissulega hefur þu þo fraa Eilijfu haft allt Vald aa Himne og Jordu, og þo medtooku þijner eigeñ þig ecke, þegar þu komst til þiñar Eignar, Joh.1.11. so sneñia took þijn blessada Smatækt ad byriast, med hverre þu bætter

Orbyrgd vora og Efnaleyse a ollum goodum Hlutum; Þvi þad meigum vier vita, christner Men̄, ad ecke skedur þad aan Orsaka, ad Guds Syne velst so audvirdelegur Fædingar Stadur: Vier Syndararner hofum þess betstu Not, bæde i þessu og odru Lijfe: Fyrst þaa komum vier i Heim þenan̄ af Lijfe vorrar Moodur, so sem Gester og Framande, berer og nakter, og getum sialfer einga Biorg oss veitt, þaa sorgar oss Guds fodurleg Giædska fyrer Herbergium og allre Hiwkran, so vier ecke deyum wtaf i vorre Vesold; þo vier sieum vesælaster allra Guds Skepna, i þvi, ad flestar þær eru nockurn Part sialf-særar skomu epter Fædinguna, en̄ Man̄skepnun̄e maa leinge fram̄ fara, til þess hun skrided getur, þvi heldur upprett staded, þaa hefur samt vor blessade Lausnare raaded so Boot a þessu voru Synda-Straffe, ad vier kun̄um vid Lijfed ad haldast, med bærilegum Naudum, fyrer Forsioon han̄s sem Lijfed gaf. En̄ fyrer þvi, ad Tialdbwd þessara Herbergia er forgengeleg, og vier hofum hier ecke blijfannlegan̄ Samastad, Ebr. 13. 14. þaa er oss tilreidd og bwen, fyrer JEsum Christum, ein on̄ur Bygging, af Gude uppbygd, Hws eige med Hondum giort, þad æfin̄legt er a Himnum, hvar um̄ han̄ sialfur talade vid sijna Læresveina, under sijna Pijnu: Eg fer ad tilbwa ydur Stad, Joh. 14. 2. vid hveria Von vier lifum, so leinge sem vier erum i Fiærlægd fraa Drottne, 2. Cor. 5. 6. O Herra JEsu Christe! Þegar vier skulum gaanga

vora ſijdurſtu Reiſu, fraa þeſſa Heims Herbergium, lꝏt oſs þaa, O Drottenn miñ, nioota þiñar Utlegdar og Anaudar, jaa, allrar þinnar Forþenuſtu, ſo vier fyrer heñar Krapt, mættum þa medtekner verda i þau himneſku Dijrdar Herberge, ſo ſem Heima-Meñ Guds og hañs Engla, til ad niootaa þar eilijfrar Viſtarveru, hvar ad er Gnoogt Fagnadar og gledelegt Lijf, til Guds hægre Handar eiliijflega. Pſ. 16. 11. Bænheyr þad fyrer þijns Nafns Saker, Amen.

# 3. Capitule.

Um Bodſkap Engelſins til Fiaarhyrdaranna.

OG Fiaarhyrdarar voru þar i ſama Bygdarlage vakande, ſem voktudu Hiørd ſijna uñ Noottena, og ſiaa, ad Engell Drotteñs geck til þeirra, og Drotteñs Byrte lioomade i krijngum þa, og þeir urdu nærſta miøg Ottaſlegner, og Engelleñ ſagde til þeirra: Otteſt ecke, ſiaaed, ea boda ydur mikeñ Føgnud, þañ er ſkie ſkal øllu Foolke; Þviad i Dag er ydur Frelſareñ fæddur, ſaa ad er Chriſtur Drotteñ i Borg Davids. Og hafid þad til Merkes: Þier munud fiña Barned Reiſum vafid, og lagt vera i Jotuna.

LAtum oſs nu, chriſtner Meñ, leggia hlijdugar

Hlustet vid þeñañ blessada Bodskap, og vendum sem betst vor Hiortu, til ad taka hier i moote; Þvi vier siaaum hvørsu sia eilijfe Gud vandar þennann Bodskaps-Burd: Hañ sender med hann til vor, ecke nockurn daudlegann Mann, helldur eiñ af sijnum himnesku Englum, so sem þetta aahrærde hañ, sem er Englanna Skapare og HErra, og fæddest þo Madur hier aa Jordu. Englenum lætur Gud fylgia siaanlega nockurn Geisla af siñe guddoomlegre Dijrd: Og Guds Dijrd lioomade i kríjngum þaa. Vel svarade þetta Efnenu, þvi nu uppruñ þad mikla Verrallldar Lioos, Joh. 8. 12. sw himneska Sool Rettlætesins, Malach. 4. 2. JEsus Christur, til þess ad þrijsa oss wt af Myrkraña Vallde, Col. 1. 13. og giøra oss, sem vorum Myrkranna Børn, jaa, eitt Myrkur, Eph. 5. 8. hæfa til Arfskiptes Heilagra i Lioosenu, Col. 1. 12. Og þar sem Fiaarhyrdararner so sem veikar Mañeskiur Ottudust þetta, sem ei var ad undra, medann þeir vissu ecke hvad þetta hafde ad þijda, þaa lætur Guds Engell ecke leinge bijda ad koma þeim til Hiaalpar, og taka fraa þeim Ottann, segiande: Otteſt ecke. Hier er nu ecke Otte, edur Ottalegt aa Ferdum, nu er ecke Ordsok nie Tijme til ad Ottast, helldur til ad fagna, þvi Eg boda ydur mikeñ Føgnud. Sañlega var þetta mikell Fognudur, þvi þetta er ecke nockur holldlegur jardneskur Fognudur, helldur andlegur og himneskur: Ecke hvikull og fallvalltur Fognudur, helldur stødugur

og ævarande: Sa Fognudur sem oll Guds Born endurnærer, og þeim vidheldur hier i þessa Lijfs Anaudum, og verdur sijdañ eilijf Fullnægia Guds Utvaldra i odru Lijfe, þvi þesse er Fagnadar Frietten: J Dag er ydur Frelsareñ fæddur. Þesse Bodskapur mætte allañ Orvæntingar Otta, allañ Efasemdar Kvijda, alla Vijls Sorg, uppræta wr Hiortum allra trwadra Guds Barna, þvi nu er þvi lyst af Omootsegiañlegum Predikara: Ad oss sie Frelsareñ fæddur, Frelsareñ til ad leysa oss fra Prældoome Syndarennar, af Fiotrum Daudañs, wr Satans Snorum, wt af Fordæmingareñar Grysiu, undañ Logmalsens Bolvan og Guds Reide Alogum; Og til þess erum vier af vorum nijfædda Frelsara fra þessum herfilega Voda leyster, ad vier þar aptur a moot skyldum meiga hliota Guds Nad og Vingan, Fyrergefning Syndanna, Rettlætinguna og eilijfa Saluhialp. So sem kaldt Vatn er þyrstre Salu, so er goodur Bodskapur af fiærlægu Lande, seger Salomon, Ordskv. 25. 25. Eñ mun nockurt kaldt Vatn, nockur Svala-Dryckur so æskelegur sar-þyrstu Briooste, sem þesse Bodskapur uñ JEsu Fæding og Forþenustu, þvi syndugs Mañs Hiarta, sem þecker sijna Salar Eymd og Orbyrgd, og fiñur þar til med vidkvæmre Samvitsku.

Þar var eitt hrædeleat Anaudar Ok liggiande a Herdum allra Adams Nidia, sem var Synden þeim yfir Hofud gengen, med sijnu fylgiande

Straffe, Oþolannlegur Hite gudlegrar Reide smellte Hiartad, Løgmaalsens Bølvan orvinglade Samvitskuna, so Saalarennar aller Kraptar skrælnudu upp, eins og Gras i Sumar-Þurk, Ps.32.4. þar ei laa añad fyrer oss, eñ swGryfian, hvar eckert Vatn var inne, Zach.9.11. Eñ Sonur Guds, hrærdur af iñstu Medaumkan yfir Oforum vorum, opnade grunnlaust Naadar-Haf siins himneska Fodurs, so þadann wtflutu til vor Syndaranna lifande og lijfgande Mysskunar-Straumar, er fridstilltu Samvitskuna, svoludu Hiartanu, og endurnærdu Saalena, so nu er uppfyllt þad Guds Ord af Esaiæ Muñe: Þar munu Vatns-Kaaser i Eydemorkuñe hijngad og þaangad fliota, og Vatns-Straumar um Sliettlended, Es.35.6. Og hier til eru aller Naadar-þyrster af þeim sama Guds Muñe bodner og kallader, med eptermiñelegu Mysskunar Avarpe: Nu vel! Þier sem þyrster erud, komed til Vatnaña, og þier sem einga Peninga hafed, komed og kauped fyrer eckert Vijn og Miolk, Es.55.1. Þike oss nu, Elskanleger, sem vier hofum mesta Skort aa ollu Goodu, og ef vier annars finnum til Illsku Kraptar Syndareñar i oss, sem vijst forþenar Oþolañlegann Elld gudlegrar Reide; Hvad skal þaa tefia oss fraa þvi, ad sæta þessu Mysskunar-rijka Tilbode, og gefa oss fram ad þessum blessada Svolunar-Bruñe, sem uppspratt og wtvall i Jesu Fædingu, af hverium ef nockur dreckur, skal hann ecke þyrsta

ad Eilijfu? Joh. 4. 4.
Þessu nærst meigum vier hier wt af þenkia til þess, ad þa Adam hafde broted Guds Logmaal, rak DRottenn hañ wt af Paradijs, og sette Cherubim i Gards-Hlided, med eitt naked sveipande Sverd, til ad geyma Vegeñ sem liggur til Lijffens Tres, Gen.3.24. so Madurenn skylde ecke ad þvi komast; Nu er aptur af Guds Engle bodadur Adam og ollum hañs Nidium, frij og frials Vegur til þess himneska Lijffens Tres, þeirrar Paradijsar sem þar uppe er: JEsus Christur er þetta Lijffens Tre, sprotted af Root Jesse, berande fagur-bloomgada Lijffens Avexte, hverier fullvel wtdrijfa kuña þa Olifian, sem rann i Merg og Bein allra Adams Nidia, af hanns Nautn af þeim forbodna Avexte Skilnings Tresins. Giætum vid, Saal mijn, lagdt þau blessudu Blod þess himneska Lijfs Tresins, JEsu, vid ockar Mein og Akomur, þa mundum vid heilbrygd verda, þvi Johannes vitnar, Op.B.22.2. ad þau þiene Heidingium til Heilsubootar. Lundureñ skylde fordum Jonæ Spaamañe fyrer Soolar Hitanum, so hañ nade ecke ad breñá hañ, Jon.4.6. Enn þegar Bruna-Hite gudlegrar Reide, sem Synden forþenar, vill smellta vora Saalu, eda Stormur Freistinganna skaka Samvitskuna, edur Hretvidre Hormunganna nidursla Hiartad, þa er vid ollu þessu hin sama Boot, sem er, ad flya med audmiwkre Bæn og Trw under Skugga þessa blessada Lijffens Tres,

vors Frelsara Jesu Christi, þar erum vier Ohult-
er fyrer allre Skadseme, þvi Salomon seger:
Nafned DRottenns er sa Kastalenn, hvort sa
Rettlaate (sa sem Trw sijna setur a Jesum) flyr,
og verdur hoolpenn, Ordskv. 18.10.

Ad sijdurstu var þesse signade Bodskapur um
Jesu Fædingu fyrst boren Fiarhyrdurunum, sem
voktu yfir Hiord siñe. Vilier þu, christeñ Mad-
ur, ad JEsu Fæding og Forþenusta kome þier til
Saalar Gagns og Nota, þa maattu ecke vera sof-
ande i Hyrduleyse Holdsens, og Sinnesins Dof-
ennleika, helldur hlijtur þu ad halda sijfellda Voku
og Vakt yfir Saalu þiñe, so Ovinerner, sem eru,
Fiandenn, Holldet þitt eiged, og Heimurenn, er
moote þiñe Saalu og allre hennar Velferd strijda,
naae þig ecke ad yfirfalla; Minnstu sem tijdast a
JEsu Ord: Vaked og bidied, so ad þier falled
ecke i Freistne, Marc. 14.38. Eñ þu, Herra
JEsu, þu blessade Israels Vaktarenn, haf þu
vakande Auga yfir þiñe veiku Hiørd, vak þu i oss
fyrer þitt Ord og Anda, og laat vor Hiertu vaka i
þier, fyrer lifande Trw og Gudrækne, og þegar
Daudañs Svefn sijdarst a oss rennur, þa laattu
Drottenn vorar Saaler flytiast af þijnum Englum
inn i þiñ himneska Dijrdar Liooma, sem þu hefur
tilbuid og tilreidt ollum sem a þig trwa, bæn-
heyr þad fyrer þinnar Oendanlegu Forþenustu
Skuld, AMEN.

4. Cap

# 4. Capitule.

Um̃ Lofſaung Englaña.

OG jafnſkiott var þar hia Englenum Margfiølde himneſkra Herſveita, ſem lofudu Gud og ſøgdu: Dijrd ſie Gude i Upphædum, og Fridur a Jørdu, og Møñum goodur Vilie.

HLuſtum hier til, mijn Sal, hverneñ þeir himneſku Herſkarar lofa Gud, og ſamfagna ockur med þa bleſſudu Heilſu-Gioſ, ſem ockur er veitt i Jeſu Fædingu. Skyldt være ockur med Englunum under ad taka, og lœra af þeirra Dæme, ad prijſa Fødur Myſkunſemdaña, 2.Cor.1.3. og hugleida þa ſtooru Naad, ſem hañ audſynde øllu mañlegu Kyne, i Sendingu ſijns Sonar i Heim þeña: Ja, eingenn Hlutur er ſkyldugre eñ ad vegſama Gud, ſem er ſialf Dijrden og Vegſemden; Og þo allar Skepnur ſieu hier til ſkyldugar, bæde a Himne og Jordu, þa er þo eingenn ſkyldugre þar til enn Mannſkepnan, þvi uppa einga þeirra hefur hiñ eilijfe Gud ſlijku koſtad; Ecke hefur Jeſus Englaña heldur Abrahams Sæde a ſig teked, Ebr.2.16. þo prijſa Englarner hanns Fædingu: Hvad mun oſs þa byria, oſs, hverium hann er alleina gefenn og fæddur, Eſ.9.5? Himin og Jord eru full af Dijrd DRottens, og hvert ſem vier Augum rennum, þa ſiaum vier i allre Art

hanns D'ird, hanns Almætte, hañs Vegsemd; Eñ helldst ætte ofs til Hiarta ad gaanga Dijrd hañs Myskunar og Oumrædelegs Kiærleika, er hann auglyste ofs i sijnum Syne; Þvi medal allra þeirra Myskunar Verka, sem hañ framed hefur fraa Eilijfu, þa er þetta hid allra mesta og ypparlegasta: Ad hañ liet sinn eingetna Son, i hverium hann alleina hafde sijna Velþocknan, taka a sig vora Naatturu, til þess ad lijda i henne Kvøl og Dauda, ofs, sijnum Ovinum, til eilijfs Hiaalprædis. Hier uñ talar siaalfur Sonureñ: So elskade Gud Heimeñ, ad hann utgaf siñ eingeteñ Son, uppa þad, ad aller þeir sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh.3.16. O! hvad maklega maa hver vorra fyrer sig under taka med Jacob: Minne er eg, O Drotteñ, allre þeirre Myskun, og ollum þeim Sannleika, sem þu hefur veitt þijnum Þenara, Gen.32.10. Og med Daniel: Þu O Drottenn ert rettlaatur, enn vier meigum skamast vor, Dan.9.7.

Fridur a Jørdu, segia Englarner. Þaa vorer fyrstu Forelldrar Adam og Eva, brutu Guds Logmaal, þaa felldu þau yfir sig og alla sijna Nidia, Oblijdu hins almaattuga Guds so vier vorum aller sem fridlauser Oboota Menn, og þad vid hañ, uñ hvern Spaamadureñ seger: Nah. 1. 6. Hvor mun standa fyrer hanns Reide? Eda hvor mar blijfa fyrer hañs Grimd? Hañs Reide brennur sem Elldur, og Biorgen sprijnga i sundur fyrer

hon-

honum. Hvad skylde oss þaa gledelegra vera, eñ ad Guds Englar boda Frid yfir Jorduñe? Hvar fyrer boda þeir Fridenn? Þvi Fridareñs Hofdinge var fæddur, hver ed sagt hefur: Joh. 14. 27. Minn Frid gef eg ydur. Hvilijkur er þesse Fridur? Þad er Fridur vid Gud i Himnenum, hañs Naad og Vinaatta, hvar af ad kemur Samvitskuñar Fridur i Gude, vid hvern vier vitum oss forlijkta. Hier uñ talar Paall, Rom. 5. 1. segiande: Med þvi vier erum nu rettlaater ordner fyrer Trwna, þaa hofum vier Frid vid Gud, fyrer DRottenn vorn JEsum Christum. Þetta er sa Fridur, sem Verolden fær ei gefed, og Verolden fær ei af oss teked, þvi þo hun hvervetna Ofrid syne og Offsookner, þaa em eg þess fullviss, ad hvorke Daude nie Lijf, hvorke Engell nie Hofdingia-Stietter, eda Magt, hvorke hid Naalæga nie Okomna, eige Hæd eda Dypt, nie nockur oñur Skepna, fær oss skiled fraa Guds Kiærleika, hver ad er i DRottne vorum JEsu Christo, Rom. 8. 38. 39. Þesse Fridureñ huggar skelfdar Samvitskur vorar, nær vier fiñum hiaa oss heilags Anda Vitnesburd, ad vier sieum fyrer Jesum Christum Guds Born ordner, v. 16. Þesse Fridur endurnærer sorgmædd Hiortu allra Guds Barna, þvi þo þau hafe Hrygd i Heimenum, þaa hafa þau Frid og Fognud i Jesu Christo. Þetta er Fridur Guds, sem er ædre ollum Skilninge, Phil. 4. 7. þvi holldlegur Madur fær hañ ecke skyniad, heldur þeir einer, sem upplyster

er af heiløgum Anda, þeckru so Synder siijnar, ad þar var ecke Fridur i þeirra Beinum, sokum þeirra Misgiørda, Ps.38.4. Þesser þeckia hvad kostulegur, hvad diijrmætur og hvad gledelegur ad er þesse Fridur, þegar Guds Ande sañfærer þœ aptur, um Naad Guds og Fyrergefning allra þeirra Synda, fyrer JEsum Christum. Þegar Vatns-Floodenu rienade fordum af Jorduñe, þœ sette Gud sitt Fridar-Teikn i Skiijunum þar uppœ, ad hañ vilde ecke framar fordiarfa allt Holld, Gen. 9.11. Eñ er hanns Giædska vilde binda eiliifann Frid vid vorar Sœler, þœ er af hañs Hiarta utgengenn sœ himneske Fridar-Bogenn, hañs eingeteñ Sonur JEsus Christur. So opt sem vier horsum nu œ hann vorum Trwar-Augum, þœ verdum vier fullvisser þar uñ, ad Guds Reide-Flood fær aldrei grandad oss ad Eiliifu. Under þessu blessada Fridar-Merke, skulum vid halda ockur, mijn Sœl, þar megum vid œrna ockur allskyns Heilla, i fullre Von nœdugrar Bœnheyrslu, þvi Gud hefur til ockar Þœnka Fridareñs, og øll hanns Fyrerheit eru i þessum hañs Syne Jœ og Amen, 2.Cor.1.20.

Ad siidurstu segia Englarner: **Og Mønnum goodur Vilie**, edur, Velþocknan. Eckert er hiœ oss, so sem af oss siælfum til, nema þad eina, sem Andstygd er fyrer Gude, þvi þar er eingenn sœ ed Gott giører og ecke einn, Ps.14.3. Eñ i Christo hefur Fadereñ alla siina Velþocknan, Matth.3.17.

og fyrer hann og i honum alleina erum vier Gude velþockader, Eph.1.6. so þar er eingen̄ Velþocknan Guds til Syndarans, nema sw sem komen er af þeim Teingdunum, sem ordnar eru mille hanns og vor i Jesu Holldgan, so vier erum Holld af hans Hollde, og Bein af hanns Beinum, Eph.5.30. og han̄ skam̄ast sijn ecke ad kalla oss sijna Brædur, Ebr.2.11. Þvi seger Johannes, 1.Joh.4. 10.: J þvi er Kiærleikuren̄, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad Gud elskade oss, og sende sinn Son, ad hann være Forlijkun fyrer vorar Synder.

Vilier þu nu, Saal mijn, ecke finnast of Oþacklaat þijnum Gude og himneska Fodur, fyrer so haaleita og Ometan̄lega Naad, þaa laat aptur aa moot þijna Velþocknan vera i Guds Vilia, og þijna Lysting i han̄s Logmaale, ecke einasta ad tala þar um̄, helldur og einnen̄ ad lifa þar epter i falslausre Trw, hræsneslausum Kiærleika og goodre Samvitsku, 1. Tim. 1. 5. Vilier þu JEsu Fridar nioota, þaa hugleid hvad til þijns Fridar heyrer, sem er: Ad hallda Eindrægne Andans, i allre Gudrækne, fyrer Band Fridarens, Eph. 4.3. Þu ert orden Gude velþockud i hans Syne, þo er þad med þeim Skilmaala: Ad þu Otteft Gud Ps. 147.11. ad þvi ad syndga, og laater han̄s Myskun aaviñna þig til goodra Verka, til hverra þu ert skopud i Christo JEsu, Eph.2.10. Vakta þvi Hiarta þitt fyrer ollu þvi, sem þessum blessada Fride kan̄ ad raska, sem er: Holldsins Verk, so sem,

Hoora

Hoordoomur, Frillulifnadur, Saurliife, Lausung, Skurdgoda-Dijrdkan, Fiolkinge, Fiandskapur, Prættan, Kijf, Reide, Agreiningur, Twijdrægne, Flockadrættur, Hatur, Mord, Ofdryckia, Ofæt, og þessu lijkt, Gal. 5. 19.20.21. Hver sa sem Frid giorer vid þennañ Oaldar Flock, hañ hefur tapad JEsu Fride, og er ordenn af Sialfskaparvijtum Barn Reideñar. Eñ þu blessade Fridarenns Hofdinge, gef oss Fulltinge af Hædum, moote þinne Fridar-Giof so ad taka, og hana oss i Nyt ad færa, ad oss audnast mætte, epter afstadna Hiervistar Styriold vora, i himneskum Fride og Fognude, þig med Fodur og H. Anda, ad lofa og prijsa um allar Eilijfder, Amen.

# 5. Capitule.

*Um Reisu Fiarhyrdaranna til Bethlehem.*

Og þa er Englarner fooru fra þeim til Himens, toludu Hyrdararner hvør vid añañ: Gaungum vær til Bethlehem, og siaum þad Verk er þar er sked, sem Drotteñ hefur opeñberad oss. Og þeir komu med Skunda, og fundu bæde Mariam og Joseph, og þar ad auk Barned liggia i Jotuñe. Eñ þa þeir hefdu þad sied, vijdfrægdu þeir þad Ord wt, sem til þeirra var sagt

af

af þessu Barne. Og aller þeir, er þad heyrdu, undrudust af þeim Ordum, sem þeim var sagdt af Hyrdurunum. Eñ Maria vardveitte øll þesse Ord, og yfervo þau i sijnu Hiarta.

LAtum nu, mijn Sæl, þad Tijmañlega bijda um̃ Stund, enn komum og forum vid med Bethlehems Fiærhyrdurum ad leita ad þeim nijfædda JEsu, og þenkium ockur um̃, hvar og hvornenn vid kunnum hann ad fiña: Ecke getur þad læted sig giøra med Lijkamañs Footum edur Augum, i þeirre jardnesku Bethlehem, þvi hañ er ad synelegum Samvistum vikeñ fra þessare Verøldu, ei ad sijdur, segest hañ Matth. 28. 20. vera hia oss alla Daga, allt til Enda Veraldar: Og er Hann ad finna i þeirre andlegu Bethlehem, edur Braud-Hwse Guds heiløgu og lijfkrøstugu Orda, þar er hañ med øllum sijnum Fædingar og Forþenustu Avøxtum oss fyrer Augum afmaaladur, Gal. 3. 1. Þar fyrer, vilier þu, christeñ Sæla, fiña þiñ JEsum, þa heyr med Gaumgæfne hvad Gud talar til þijn i sijnu H. Orde, og trw þvi af Hiarta. Gaumgæfnen og Trwen eru þær Hendur, sem JEsum eiga ad fiña, skoda og umfadma: Gaumgæfnen gefur Ordenu Iñgaungu i Hiartad Trwen innsiglar Orded i Hiartanu: Þvi hvor hañ medtekur JEsu Vitnesburd, (sem hañ vottar fyrer

oss

oſs i ſijnu Orde), ſem iñſiglar þad, ad Gud ſie ſañordur, Joh. 3. 33. Þad er, hañ fiñur til þeſs, ſo ſem eitt Jñſigle þrykt i ſitt Hiarta, ſem er Trwen, ad Gud ſie ſañordur, ſo ſem Lutherus wtleggur þeſſe Ord, og ſo dregur lijka Trwen til ſijn þañ Naadar-Kraft ſem Ordenu jafnañ fylger. Sa ſem heyrer Orded an Gaumgæf-ne, hia honum er þad ſem Skoogar-Pitur, er gengur iñ um eitt Eyrad, og wt um añad, þar fellur þad himneſka Sæded um hardbareñ Veg i Syndarans Hiarta, og verdur Footum trod-ed, og Fuglar Loptſins eta þad, Luc. 8. 5. Sa ſem ecke feſter Hiartans Trw a ſierhvoriu þvi ſem DRotteñ ſeger honum, og lætur ſegia af ſijnu Orde, hañ fær aldrei JEſum funded, þvi Vantrwareñar Skijla hanger þar mille Hug-ſkotſins Augna og Guds Evangelii, ſo hann nær ecke ad ſia þeſs Dijrd, alijka og Jſraels Syn-er gatu ei ſied Biartleika Moyſis Aſioonu, er hann heingde Skijluna þar fyrer, Ex. 34. 33. Þvi ſeger Paall: 2. Cor. 4. 3. 4. Er nu vort Evangelium huled, þa er þad huled þeim ſem for-tapader verda, i hvorium ad Gud þeſſarar Ver-aldar hefur forblindad Hugſkot Vantrwadra, ſo þeir ſiæe eige þad klara Evangelii Lioos Chri-ſti Liooma. Eñ þu, ſyndugur Madur, ſnw þier til DRotteñs, Cap. 3. 16. og bid JEſum ad leggia af vid þig þau Smyrſlen, med hvorium þu kuñer ad ſmyria þijn Augu, ſo þu ſiaer, Op.

B.

V 3. 18. Andvarpa med David: Ps. 119. 18. Opna þu mijn Augu, so eg siaæ þa furdañlegu Hlute i þijnu Logmæale, og trw þvi fyrer vijst, ad ef vier, sem vonder erum, kuñum ad gefa Bornum vorum goodar Gæafur, þa mune miklu framar sæa himneske Faderen̄, gefa þeim H. Anda, sem hañ þar um̄ bidia, Luc. 11. 13. Fordum Daga Leidsagde MRotten̄ Jsraels Foolke um̄ Eydemorkena, med einum Stoolpa, er var sem Elldur um̄ Nætur, enn Skij um̄ Daga; Oss Leidseger hañ, gegnum þessarar Veralldar Eydemorku, fyrer Elldstoolpa siña H. Orda, er vijsa oss Leidena til Christum, og upplyser so vor Augu, ad vier sæaum hañ sied og þeckt. Mundu þig um̄ þad, mijn Sæal, ad þu misser ecke Stoolnar æ þessum Elldstoolpanum, medañ þu ert eñ ad þreyta þijna Pilagrijms Reisu, gegnum allar Hættur og Villustiga Veraldareñar. Þar er eiñ svartur Stoolpe Heimsins vondra Eftirdæma, og Holdsins skadlegra Gyrnda, hvorium ad þessarar Veraldar Born epterfylgia, er framar elska Myrkred eñ Liooseð, og ræasa so fram̄ epter þeim breida Glotunareñar Vege; Eñ sæa Vegur er mioor, Matth. 7. 14. sem liggur til JEsum Christum: Þvi er eingeñ Von þu sæaer hañ ratad, nema Guds Ord sie Lioos æ þijnum Vegum, og Lampe þiña Foota, Ps. 119. 105. Þetta Liooseð skijn i myrkvum Stad: 2. Pet. 1. 19. Þad burtdrijfur Myrkur Sorgaña, þvi þad

gled=

gledur Hiartad; Ps. 19. 9. Þad eyder Myrkre Fævitskuñar, þvi þad upplyser Hugskoted og gefur Vijsdoom Skilningslitlum, Ps. 19. 8. Þad fræsnijr Myrkre Syndaña, þvi þad greider vorar Fætur fram̄ a Fridarens Veg, Luc. 1. 79. Gacktu þvi, christeñ Saala, i þessu Liooseñu, so Myrkureñ hondle þig ecke.

Undarlegt þokte, og þad ei aan Ordsaka, svo dijrdlega Opeñberan, sem þeim um̄komulausu Fiaarhyrdurum veittest a Bethlehems Mørku, eñ vel maatte hun uppvekia Meñ til þess, ad þenkia um̄ Fæding Messiæ, sierdeiles þar sem Engelleñ bodade hana Hyrdurunum, med berum Ordum. Vidlijka maa um̄ Guds Ord tala; Ad þar kemur margt fram̄, sem vorum Skilninge er undarlegt og Ogrijpañlegt, þvi hvørnenn kañ mañleg Skinseme, af Syndeñe villt og blindud, so skiniad edur griped, þa dijrdlegu Guds Leyndardooma? Hverium vier verdum þo ad trwa, epter þvi sem þeir eru oss i Ordenu augliyster, ef vier vilium añars hoolpner verda. Hver saa sem holdlegre Skynseme fastlega fylger i Trwareñar Greinum, hañ lærer, eñ kemst þo aldrei til Sañleiksens Vidurkeñingar, 2. Tim. 3. 7. lijkur Gydingum, sem af eigeñ Iñbyrlingu wtlogdu Spaadoomana um̄ Messiam, uppaa veraldlega Vijsu, steittu sig þvi so miog a hañs audvirdelegu wtvortes Asigkomulage, og trwdu hvorke hañs Ordum nie Verkum. Þvi eigum vier

Þoss-

Postulans Heilræde, 2. Cor. 10. 5. ad hafa: Ad taka til Fanga alla Skinsemd under Christi Hlijdne. Þad sem Skilningureñ fær ei griped, þad ma Trwen ad hondla, añars er Trwen eingeñ Trw; Þvi hvad er þad, þo Madur trwe þvi, sem Skinsemen þecker, og Augun sia? Eñ i þimu eriar a Trwñe, sem Madur sier ecke, og allre mañlegre Vitsku er Ogrijpañlegt, eins og forer Mariu, er Engelleñ bodade heñe, ad hun skylde Son geta i Kvide sijnum, jafnvel þo hun hefde eingann Karlmann kennt, og hun sagde: Eg em Ambaatt DRottens, verde mier epter Orde þijnu, Luc. 1. 38. So trwde Abraham Rom 4. 18. Guds Fyrerheite, uñ þad, ad honum skylde Sonur gefast, i Von, og stadfostu Trauste til Guds Sañleika og Trwfeste, fram yfir Von og allann Skilning mañlegrar Naatturu, og þetta heiter ad gefa Gude Dijrdena, v. 20. er vier holdum fauugnum vorum Skilninge, uppa þad, ad Guds Orwfañleg Ord skule hia oss Stad finna.

Texteñ seger: Ad Maria hafe vardveitt øll þesse Ord, og yfirvegad i sijnu Hiarta; Hvar af vier læra meigum, ei einasta ad heyra Guds Ord, heldur og einneñ ad vardveita þau i sidsomu Hiarta, so framt sem vier viliū JEsum þar inne fiña. Sæded kañ ei Avoxt færa, nema þad ligge i Jordnñe og deye; So kann Guds Orda Sæde ecke ad færa hia oss Avoxt, nema vier geymum þad i Hiartanu, og veltum þvi fyrer oss med sijfeldre Umþenk-

 ingu.

ingu. Þo vier naaum ecke strax þeim retta Skil-
ninge a einu edur odru i Orde Drottens, þa samt
ef vier þenkium þar um yduglega, mun Hugskoted
smaasamann upplysast, og vier æ meir og meir finna
þess Naadar Krapt og blessadan Sætleika.

Þau Ord, sem hier seger ad Maria hafe vard-
veitt hia sier, voru um Jesu Holdgan og Fædingu.
Þad ætte oss minnesstædast ad vera, og er hid allra
gledelegasta, ad sw himneska Sool Rettlætesins
uppran hier a Jordu i Liikingu syndugs Holldz,
Rom. 8. 3. þo an Syndar, Ebr 7. 26. til þess ad
Syndararner skyldu finna Hiaalprædet under
hans Vængium. Þetta er þad dijrmæta verd-
uga Ord sem Paall um talar, 1. Tim. 1. 15. ad
Christur er komen i Heimen, til þess ad giora Syn-
darana saaluhoolpna, medal hverra eg er hinn meste,
seger hann, hvad þu matt lijka vel jaata, mijn Saal;
Enn þier er þo Myskunseme yfir komen, þvi Sonur
Guds er komen ad kalla Synduga enn ecke Rett-
laata til Yfdrunar, Matth. 9. 17. Gleymdu ald-
rei, mijn Saal, þessu blessada Efne, yfirvega þad
an Aflaats i Hiartanu, þvi þad er þijns Hiarta
einasta Boot og Huggun. O HErra!
Virdstu fyrer þinn H. Anda, ad innsigla so þitt
blessada Ord i vorum Hiortum, ad vier fyrer þess
Krapt og Upplysingu, mættum festa so a þier
Augu vorrar Trwar hier i Naadenne, ad oss aud-
nast mætte, ad sia þig og skoda Auglite til Auglit-
es i Dijrdenne; Bænheyr þad fyrer þijns Nafns

Skulld,

Skullo, A M E N.

# 6. Capitule.

Um̃ Heim-Reisu Hyrdaraña, og þeirra Þacklæte.

EG Fiarhyrdararner sueru aptur, dijrdkande og lofande Gud, fyrer allt þad, hvad þeir hofdu heyrt og sied, epter þoi sem þad var sagt til þeirra.

UM þessar Tijder framkomu þau blessudu Fyrerheit, sem D Drotteñ gaf i gamla Testamentenu, um̃ Kvinnunar Sæde, er sundur mola skylde Hoggormsins Hofud, 1. Mos. 3. 15. og i hveriu ad Þioodernar skyldu blessast, 1. Mos B. 22. 18. Epter þessu hlutu Guds Meñ ad bijda med Hiartans Þreigingu: Abraham sa ad vijsu Dag Christi, og vard gladur vid, Joh. 8. 56. þo einasta i Anda, styrkiande sijna Von i Guds Fyrerheitum; Eñ Abrahams Sonum hefur sijdañ audnast ad sia enn þar lioosara Christi Dag: Abraham sa hann med Augum Trwareñar, eñ þeir bæde med Lijkamañs og Trwarennar Augum: Hann hafde Skuggañ, þeim veittest þar epter sialfur Lijkamenn: Hann hafde Fyrerheiten, þeir sijdañ Fyrerheitanna Fullkonnan; So sa Leyndardoomur er opeñberadur, sem i fra Veraldar Upphafe hefur vered yfir þagad, Rom. 16. 25. Lætum oss þoi, Guds Born, taka under med David af Hiarta og Muñe: Lof seig þu Ond mijn Drottne, og allt hvad i mier

er hanns H. Nafne: Lofa þu DRottenn Saala mijn, og gleym ecke neinu þvi goodu, sem hañ hefur giort þier, Ps. 103. 1. 2.

Ecke liet vor blessade Herra sijna Fædingu fyrst bodast Hofdingiunum i Jerusalem, ecke þeim Skriftlærdu edur Olldungunum, heldur umkomulausum Fiaarhyrdurum, og laungum hefur þad vered Venia hiñs alvijsa Guds, ad wtvelia þad sem eckert er fyrer Heimenum, so hañ giore þad ad eingu, sem nockud er, 1. Cor. 1. 28. Umkomulausa og faatæka Stwlku wtvalde hann sier fyrer Moodur, Asna Stallureñ var hañs fyrsta Hvijla, er hañ i lagdest, i Utlegd eydde hann sijnum fyrstu Barndooms Arum, og so synde hann blessadur aa allann Haatt, ad hanns Rijke var ecke af þessum Heime, Joh. 18. 36. og hañ kom ecke til ad leita epter veraldlegre Upphefd, heldur giordest hann faatækur og audvirdelegur, so vier fyrer hañ skyldum rijker verda, 2. Cor. 8. 9. Þvi seger hañ og lijka fyrer Esaiam: Ande DRottens er yfir mier, og hefur sendt mig ad predika þeim Faatæku Evangelium, Es. 61. 1. Vid þessa Guds Raad og Giædsku, sem jafnañ aalijtur hid Laaga og Audvirdelega, kañast og þesser Hyrdarar i Hiartans Trw og Audmykt, þenkiande vidlijkt og Maria, er hun sagde: Saal mijn upphefur Drotteñ, og Ande miñ gledst i Gude Frelsara mijnum, þvi hañ aaleit sijna aumu Ambaatt, Luc. 1. 46. 47. Þess vegna dijrdka þeir og vegsama Drotteñ, fyrer allt sm̃ þeir hofdu heyrt

og sied, um̃ JesuChristi Auglysingu i Holldenu.

Miked veitteſt nu þeſſum Fiarhyrdurum, i Sioon himneſkra Herſveita, i Auglysingu Guds Dijrdar Liooma, og einkum i Fædingar Bodan alls Heimſens Lauſnara; Eñ eins miked hefur þu, mijn Saal, Gude ad þacka: Sijna himneſka Engla lætur hann þier daglega þioona, Ebr. 1.14. Engla Fridareñs, þad er Ordſins Predikara, lætur hann þier undervijſa i þijnum Saaluhialpar Efnum: Yfir þier er upprunned þad ſkiæra Lioos Evangelii, ſem upplyſer Myrkur þijns Hugſkots: So vel er JEſus Christur gefenn þier og fæddur, ſem þeſſum Fiarhyrdurum, og hverium ødrum, hañs Fædingar og Forþenuſtu nautſt þu ſtrax ad i hañs H. Vatns-Skijrn, er þu endurfæddeſt til lifande Vonar, um̃ Oforgengelega Arfleyfd, ſem þier vardveiteſt aa Himnum, 1.Pet.1.3.4. Þvi ber þier hier fyrer ad offra DRottne Lofgiordeñe, og gialda hinum Hæsta þijn Heit, Pſ. 50. 14. Þad ſkedur med koſtgiæfilegre Heyrn Guds Orda, hvar iñe hañs Maaſemder og Velgiordningar verda þier fyrer Sioon ſetter; Þo ſkaltu hugſa, þaa þu gengur undañ Guds Orda Heyrn, ad þu hefur eñ ecke afloked allre þiñe Skyldu, heldur aatt þu, mijn Saal, ad vekia þad ſijdañ upp fyrer ſialfre þier, ſm̃ þu gatſt numed af Ordenu, ſo þad mege rootfeſtaſt i Hiartanu, þvi þad er ſu Mæliſnura, epter hverre þu aatt ad retta alla þijna Þanka, Ord og Verk, þvi aa þad þier hvervetna fyrer Augum

ad vera: Eins og Augad er Lioos Lijkamans i allre Limanna Utrettingu, eins er Guds Ord Lioos Hugskotsens, i ollum Lijfernis Athofnum Hier ad auk minnstu þess, christen Madur, ad þu meddeiler lijka odrum nockru af þvi, sem þu lærder af Ordenu, tak þier þar Ordsok af, ad uppfræda þa sem eru fakunnande, edur og ad leita þier Uppfrædingar hia þeim, sem betur vita; Þvi Postulenn Eph. 5. 19. vill ad vier tolum hver vid annann af Psalmum, Lofsaungum og andlegum Kvædum. Vier hroosum hver vid annan vorum Velgiordamonnum, og vijdfræginn þeirra Velvilder; Enn mun oss þa ecke miklu skyldara, ad hroosa, wtbreida og vijdfrægia þær stooru Myskunsemder vors himneska Fodurs og Skapara, hverra vier niootum Oflaatanlega, bæde til Lijfs og Saalar. So sem illt Samtal spiller goodum Sidum, 1. Cor. 15. 33. so styrker gott Samtal gooda Side, og ecke er þad ad efa, hvar sem slijkt Samtal er um Hond haft ydugleg, þar er sialfur JEsus nalægur, þvi hann hefur sagt: Joh. 14. 23. Hver sem elskar mijn Ord, Fader minn mun elska hann, og til hanns munum vid koma, og hia honum Vistarveru giora. Vors Guds Daasemder, sem oss eru fyrer Augu settar i hanns Orde, verda aldrei wtsagdar; Þvi ættum vier med rettu, ei einasta a Hvijldar-Dogunum, heldur og daglega, ja, so opt sem þad getur sked, fyrer Holdsens Veikleika, og þessa Lijfs Armædu Umsvifum, þær ad hugleida, og þar um

ad ræda, hvar af ad sijdar spretta munu þeir rettu Avexter Guds Orda Sædis: Fyrst Trwen, sijdann af Trwnne Elskan, og af Elskunne hiner adrer Avexterner, Gude þacknæmer og Saalunñe heilnæmer, so þu verder sem eitt bloomgad Tre, plantad hiaa Vatns Lækium Ps. 1. 3. Guds Orda, hvar af þad daglega til sijn dregur himneskann Nææodar Vokva, so Avexterner solne aldrei nie af-falle, þo Hret-Vidre Hormunganña edur Storm-Vindar adskilianlegrar Areynslu aa-dynia mege; Þvilijker seger David Ps. 1. 2. sieu þeir, sem hafa sijna Lysting i Logmaale DRottenns, og tala uñ þad Daga og Nætur. Eñ hiner, sem ihugunarlaust leida hiaa sier Guds Ord og hañs heilogu Daasemder, og laata þetta sem Vind uñ Eyrun þioota, þeir eru sem visen Lauf-Blod, skeken af Vinde Diofulsins, Heimsins og Helldsins Freistinga, edur sem Hisme; Ps. 1. 4. hveriu Guds Reide-Stormur mun uñ sijder burt-feykia. Gud laate ockur ecke, mijn Saal, stadnæmast i þeirra Selskap, helldur gefe hañ ockur ad breita epter Dæme þeirra, sem athuga Verken DRottenns, og hafa sijfelda Lysting þar af, Ps. 111. 2 So þad sie ockar Hiartans Lyst ad lofa DRottenn, Ps. 147. 1. og ockar Kiesioodur ad vardveita hanns Bodaner, Ps. 119. 56. JEsus Christur gefe ollum oss ad æfa vor Hugskot, Heyrn og Maal i hañs Daasemdum, hanns Lofgiord og Dijrdkan, so þetta sama mætte verda oss sijdar meir eilijft Epterlæte

ca Lande lifande Maña. Heyr þad, O HErra! fyrer þijns Nafns Skuld, Amen.

# 7. Capitule.

Uñ Umſkurn Chriſti.

OG þa atta Dagar voru lidner, ad Barned ſkylde umſkeraſt; Var hañs Nafn kallad JESUS, hvad ed kallad var af Englenum, adur eñ hañ var geteñ i Moodur Kvide.

SKylldt er ockur, Sala mijn, ad þenkia nockud framar epter Umſkurn ockar, bleſſada Frelſara, hvar med hañ giordeſt, þiñ Brwdgume, ja, þiñ Blood-Brwdgume, þvi þig hefur hañ ſier til Brwdar faſtnad, med ſijnum Umſkurnar Blood-Dropum, hverium hañ wthellte, ſo ſem odrum Pant, uppa ſitt epterkomande Endurlauſnar Giald, er hañ ſijdar vilde wtleggia, i ſinne Pijnu og Dauda fyrer allann Heimeñ. Augliooſt er þad af Guds Orde, ad þa vier fædumſt i Heim þeña Hold af Holde, þa erum vier aller yfirklædder Illſkuñar Forhwd, og ſo ſem vier erum fra Moodur Lijfi Logmalſins Yfirtrodſlu-Meñ, ad Spamañſins Vitne, Eſ. 48. 8. ſo erum vier Logmalſins Bolvan underorpner; Þeſſa vora Bolvan bar Soñur Guds, i Þreyngingunum, Offooknum, Forſmaan, Fyrer-

kitning og øllum Pijslum þeim, er hañ leid uñ sijna Hiervistar Daga, og þad byriade hann strax i siñe Uñskurn, sem var Upphaf hañs Kvala, er hañ þolde fyrer Syndarañ, so hañ liet ecke lenge bijda ad blada œ sig vorum Ørkumslum. Vijst var hañ heilagur, hreiñ og frœskileñ Syndurunum, Ebr. 7. 26. so hañ þurfte ecke i neiñ Maata Uñskurnareñar vid fyrer siœlfañ sig, sem var tilsett fyrer þa syndugu og brotlegu; Enn vier, vier erum aller i Syndeñe getner og fœdder, Ps. 51. 7. og þar sem vier lœum uñvellter i Bloode vorra Rœnglœtinga, þa lœ ecke annad fyrer oss, eñ i þvi sama wt af ad deya eilijfum Dauda; Þess vegna hefur vor elskulege Endurlausnare þolad Uñskurnareñar Sœar, so vier fyrer þa hañs Ben, sem hveria adra, skyldum heulbrygder verda, 1. Pet. 2. 24. J Uñskurneñe wthellte hañ sijnu heilaga saklausa Bloode, so vier i þvi mœttum rioodra vor Hiørtu, þvo vorar saurugar Samvitskur af øllum daudlegum Verkum, og affsnijda Lastaña Forhwd, til ad þioona Gude lifanda, Ebr. 9. 14. Þad mœ eg aumur Syndare jœta, ad eg hefi eitt Ouñskored Hiarta, er þad bijr yfir margvijslegum vondum Þaunkum, og er so tregt til þess, ad gefa lidugt Rwm Guds Anda Hrœringum; Og sama er ad segia uñ hina adra Lijkamañs Liime, nœr Synden fœr þa teigt til þess, ad liœst Rœnglœtenu til Hervopna. Eñ miñ JEsu! Uñ þu mier,

 Þiñ-

þiñar blessudu Naadar, til Bootar og Betrunar a mijnum Lijfernes Hag, so eg ysi ecke ad niju þijnar Under, nie selle ysir mig þijns Foðurs Reide, heldur gef, miñ DRotteñ, ad eg mætte i Andans Heilbrygde þioona þier aan Otta, alla mijna Lijfdaga. Saa sem uñskoreñ var, hann skuldbatt sig Logmaalenu, Gal. 5. 3. til ad hlijdnast þar med Gude, i hvors Saattmaala hañ komeñ var: So hefur vor Endurlausnare JEsus Christur, genged i sinne Uñskurn under Logmaalsins Ok, til ad lietta þess Obærelegum Þwnga af vorum Herdum, er añars hefdi þreyngt oss ofañ i Afgruñ Kvalaña. Hañ visse blessadur betst, hvorsu Omogulegt oss var Logmaaled upp ad sylla, þvi vilde hañ fyrer oss giora þvi Fullnustu, so vel i þessare Grein, sem hvorre añare, so hañ yrde Logmaalsins Ender, ollum sem trwa til Rettlætes, Rom. 10. 4. Þess vegna veit eg, ad aldrei brijt eg þad a moote Logmaalenu, ad eg fæe þad ecke fullum Bootum bætt i Rettlæte og Sakleyse mijns blessada Frelsara, þa Gud gefur mier Vit a þvi ad ydrast þess af Hiarta, og trwa a hañ, sem rettlæter hiñ raangláata, Rom. 4. 5. Herrann vor liet uñskerast a aattunda Dege, sem þar tilsettur var i Logmaalenu, þar epter liet hañ lijka skijrast, og so hefur hañ helgad a sialfum sier, bæde gamla og nija Testamentesins Sacramenta, og sameint sig beggia Testamentanna Guds Barna Samkun-

du

du, ad aller sem trwa, bæde þa og nu, sieu eitt med honum, og hañ þeirra Hofud. Forhwdenn atte i gamla Testamentenu, ad teikna þañ gamla Mañeñ, edur þa Spillingu, er vier aller erft hofum epter Adam; Lijka sem Forhwdeñ var þa afskoreñ i Umskurneñe, so verdur Syndareñar Hamur afsoss dregeñ i Skijrneñe, sem i Stad Umskurnareñar komeñ er, og vier hreinsader af medfæddum Saurendum. Eñ so sem þad var ecke noog i gamla Testamentenu, ad vera umskoreñ, nema Madur umskiære Yfirhwd sijns Hiarta, 5. Mos. B. 10. 16. fyrer Afleggingu syndsamlegs Lijkama i Holdenu, og vardveitte Guds Sættmaala i trwudu Hiarta, sem Paall kallar Umskurn giorda aan Handa; Col. 2. 11. So er þad nu ecke heldur noog, ad vera skijrdur, nema vier umskerum oss i andlegañ Maata, med þessare somu Christi Umskurn. Þegar Moyses gleymde ad umskera siñ Son, þa vilde DRotteñ deyda hañ, eñ Ziphora hañs Kvinna took eiñ Stein og umskar Yfirhwdena a sijnum Syne, 2. Mos. B. 4. 24. Logmalsens Steinar, edur Stein-Toblur, eru þad, med hvorium Gud vill vier umskerunst; Þar fyrer attu, christeñ Madur, med þessum hvassegginudu Steinum, ad giora einn Skurd edur Saar i þitt Hiarta, fyrer gloggañ Reikningskap vid þijna Samvitsku, og Samañburd þijns Lifnadar vid Guds Logmaal, sem er sa Ofalsade Proof-Steiñ, med hvorium

vier

vier eigum ad reyna vorar Athafner, bæde ut-vortes og innvortes, og þo sierdeiles innvortes, hvert þær sieu epter Gude giordar; Og er þu finnur Svidann i Sœrenu, þad er, Angur og Trega Hiartans, fyrer driigdar Synder, sem Logmœled og Samvitſkan vitna œ þig, ad þu framed hafir moote Gude, leynelega edur open-berlega, so þu tekur til ad ſtynia sem Drotan med Ezechia, Eſ. 38. 14. þa bid JEſum, og mun hañ, miikia og græda þitt Sœr, med ſiinu bleſſ-ada Umſkurnar Bloode, þvi Johannes ſeger, 1. Joh. 1. 7. þad hreinſe oſs af allre Synd. Vid-ſmiored miiker Liikamans Sœr, eñ miklu betur miiker og græder Blooded JEſu vor Sœlar-Sœr, þvi þad er ſœ friiopne Brunnur, sem Davids Hws og Borgar-Meñ i Jeruſalem hafa moote Syndum og Ohreinleika, Zach. 13. 1. so ef þu bidur med David, ef þu bidur og kva-kar af audmiwku Hiarta og ſtodugre Trw, Pſ. 51. 9. Aſleys þu mig med Iſopo, ſo ad eg hrein-ſiſt, þa muntu ad ſomu Raun komaſt og hann, Pſ. 30. 3. DRotteñ Gud miñ, þa eg kallade til þiin, þa giorder þu mig heilbrygdañ. O! Herra Jeſu Chriſte, þu himneſke Blood-Brwd-gumeñ vorra Sœlna, gef oſs ad nidurleggia oll Forhwdar Verk, og ſyndſamlegt Athæſi, og i þiinu Bloode hvoitſœga ſo vorn Skrwda, ad œ oſs mætte ſiaſt þad fagra Brwdar-Skart þiins Rettlætes, er votte oſs ad vera þiina diir-

keypta

keypta Brwdur, i Lijfi og Dauda, Upprisu og Eilijfd, A M E N.

# 8. Capitule.

## Um Nafned, J E S U S.

Hanns Nafn var kallad J E S U S, (seger Textenn.)

Mijnstu hier wt af, mijn Sæl, a þad blessada Hiaalpræđes-fulla Nafn þijns elskulega Endurlausnara, og hugleid þad, ecke einasta sem eitt Ord, samanstandande af Bookstøfum og Adkvædum, heldur so sem eitt Nafn fullt Leyndardooma, ja, fullt himneskrar Huggunar øllum Erfidande og Þrwnga-þiaadum. Hañ heiter JEsus, þad er, Frelsare, þvi hann frelsar sitt Foolk af þeirra Syndum, Matth. 1. 21. og fra øllum Sæalar Ovinum, Dauda, Dioflе og Helvijte. JEsu Nafn er Upphaf, Mid-Punctur og Ender allrar rettkalladrar Glede, þad er Hugsvølun Sorgmæddra, Kastale Freistadra, Frijstadur Faaraadra, Hæle Naudstaddra, Lækning Siwkra, Frelse Herteknña, Lijf þeirra Deyendu, og eilijfur Fognudur allra Utvaldra i Himnenum: An þess skier eingen Hiaalp nie Velferd Syndaranum, þvi þar er eckert añad Nafn Moñunum gefed under Himnenum, i hveriu þeim byrie hoolpnum ad verda, utañ alleina Nafned JEsus, Post. G. B. 4. 12.

Þegar eg þenke um̃ mitt Skijrnar Nafn, þaa aangrast Saalen mijn maklega, er eg sie, hverſu eg hefe med illre Breitne rofed mitt Heit, er eg Gude hiet i Skijrneñe, og Skyldan wtkrafde; Eñ sem eg þenke um̃ þad bleſſada Um̃ſkurnar Nafn mijns Endurlausnara Jesu, þaa gledst Saalen mijn hiartañlega, þvi af þvi veit eg, ad miñ himneſkur Fader ender viſſulega vid mig þad sem hann mier fyrerhiet, ecki af Verdſkuldan, heldur af ſiñe einſkiærre Giædſku, sem er hanns Aſthylle og Fyrergefning allra miña Synda, i þeſſum ſijnum elſkulega Syne JEſu Chriſto, sem hann hefur gefed mier til Vijsdoomis, Rettlætis, Helgunar og Endurlausnar, 1.Cor.1.30. Þitt Nafn er eitt wthellt Vidſmior, ſeger Brwduren i Loffvædenu, Cap.1.3. Med Vidſmiore aatte allt Matoffur ad yfirdoggvaſt i gamla Teſtamentenu, 3.Moſ.B.2.1. JEſu Nafn er þad himneſka Vidſmior, med hvoriu vier eigum ad yfirdoggva allar Foorner vorrar Guds Þioonuſtugiordar, þvi fyrer JEſum Chriſtum alleinaſta kunna þær Gude ad þocknaſt, 1. Pet.2.5. Þar fyrer aatt þu, mijn Saal, oll þijn Verk og Athafner wte og iñe ad uppbyria i JEſu Nafne, andvarpande um̃ hañs Adſtod, befalande honum i ſtodugre Trw þijna Vegu, og eckert þiér fyrer takande, nema þad, sem hañ leiſt hefur og ſkipad, edur ad miñſta Koſte ecke bañad. Hier til aaminner Paall Poſtule, ſegiande: Col. 3. 17. Allt hvad þier gioreð med Ord og Verk, þad gior-

ed i Nafne DRottens JEsu. Aldrei skylder þu so leggia þig til Svefns ad Kvolde, ad þu ei gadur til þijn innbiooder þijnum JEsu med audmiwkre Bæn, eins og Lærefveinarner, er til Emaus reistu, segiande: Vertu hia oss HErra, þvi ad kvolda tekur, og a Dagenn lijdur; Og aldrei so uppvaknadur ad Morgne standa af þinne Hvijlu, ad þu ecke andvarper til Jesu umm Verndan og Lidveitslu, þvi fyrer hann skedur þad, ad vier vardveitunst fra ollu illu; Ecke skylde Lijkamenn sediast so a Fædunne, ad hun ei blessest fyrer Bænena i JEsu Nafne, og Saalen under eins sediest a Jesu Nafns Sætleika.

Framar att þu, christenn Madur, ad taka þier trwann Vara fyrer þvi, ad þu ecke legger JEsu Nafn vid Veraldarennar Hiegooma, i Giaalijfes Munn-Flapre, edur faafeingelegum Eidum. Minstu þess, ad DRottenn vill ei halda þann saklausann, sem hanns Nafn brwkar faafengelega. Þvi sijdur att þu þijnum Naunga ad bidia nockra Obæna i þessu JEsu Nafne, sem ollum er til Blessunar gefed. Kann nockud Brunnurenn ad uppvella sætu Vatne og beisku af samre Uppraas? seger Jacob, Cap. 3. 11. So eiga Bloot og Formælingar ecke framar skyldt vid JEsu Nafn, enn Belial vid Christum. Þad sem Hiartanu er kiærast, þad er Twngunne tamast; Þar fyrer, ef JEsus er Fesioodur þijns Hiarta, þa verdur hann og Hunaang þinna Vara, enn ecke Bloot og daarleger Munn-Eidar, sem hætt er vid ad sneyde Syndarann allre Blessan,

og

og egne Guds Afellis-Doom yfir hanns Hofud. Þad mætte ogmedal annars aptra þier fra allre Vanbrwkan a JEsu Nafne, ad þu verdur einasta i þess Skioole og Trauste, ad leita alls þess, sem þier liggur a ad fa hia Gude, þvi þa þu gyrnest ad akalla Gud um þijnar Naudsyniar, þa att þu ad bidia og kvaka i JEsu Nafne, þvi ad i honum eru oll Guds Fyrerheit Ja og Amen, 2. Cor. 1. 20. Fyrer hanſ Fyrerboon og Forþenustu verda vorar Bæner kroptugar ad þreyngia sier i gegnum Skijen til nadugrar Aheyrslu; Þvi seger hañ sialfur, Joh. 16.23. Hvers þier bidied Fodureñ i mijnu Nafne, þad mun hañ veita ydur.

Þa eg rata i nockra Sorg edur Þreyngingu, þa er JEsu Nafn, under eins og Guds Ande miñer mig þar a, mijn kroptugasta Hugsvolun, og hiartnæmasta Glede, þvi til þess er hañ Jesus ordeñ, ad hañ yrde freistadur a allañ Hatt, lijka sem vier, þo aan Syndar, Ebr. 5.2. og til þess er hañ freistadur, ad hañ hafe Sampijningu med þeim, sem freistader verda, Cap. 2.18. Hann bad ad Pijnunnar Kaleikur mætte fra sier takast, og feck ecke, Matth. 26.39. Þar med veit eg, ad hañ hefur mijn vegna afdrucked Reidennar Kaleik, enn wtvegad mier aptur sætañ Glede Bikar, og þo honum þocknest ad birla hann stundum med nockrum Hormunga Dropum, þa vil eg þo segia med David: Þañ heilsusama Kaleik D Rotteñs vil eg afdrecka, Ps. 116.13. sierdeiles þar eg veit, ad hañ

mijns

mune þar epter gefa mier ad drecka med sier nijtt Vijn himneskt ar Glede i Guds Rijke. Þa Gud añ mier Glede og Medlætis, hugsa þa, mijn Sal, til þijns Jesu, og lat aldrei Holldsins Glede deyfa hanns Miñingu i þijnu Hiarta; Þeink uñ þad, hvorsu hañ var allskyns Hørmungum hladeñ, nær hañ var ad kaupa þier Frid og Fognud, still þvi Holdsins Giælijfe, og gled þig med Otta, og þioona honum med Skiælfta, Ps. 2. 11. Sijdarst þa Daudeñ kemur ad Hondum, latum þa Jesu Nafn vera vort Augna-Mid, fyrer hann er vor. Daude ordeñ oss ad Iñgaungu til Lijfsens: I sijnum Dauda befalade hann sijna Saal i Fodursins Hendur, og under eins allra siña Barna Saaler, er af hañs Saalu hæanga; So megum vier þa i þessu sama JEsu Nafne, befala vorar Saaler i Myskunar Hendur Guds vors himneska Fodurs, og so fyrer JEsu Nafns Forþenustu Krapt, eilijflega hoolpner verda. Þad gief þu oss, sæte Jesu, fyrer þijns blessada, Hiælp-færanda Nafns Saker, Amen.

# 9. Capitule.

Um Reisu Vitringanna til Jerusalem, og Spurningu Herodis til Kennemañaña.

NÆR Jesus var fæddur, i Bethlehem a Gydinga-Lande, i Tijd Herodis Kongs, sia, þa komu Vitringar af Austur-Lande til Jerusalem og

ſøgdu: Hvar er ſa nijſædde Konungur Gydinga? Vier høfum ſied hans Stiørnu i Auſtur-Lande, og erum komner ad tilbidia hañ. Eñ er Herodes Kongur heyrde þad, ſkelfdeſt hañ, og øll Jeruſalem med hønum, og liet ſamannſafna øllum Keñemaña-Høfdingium og Skriftlærdum Lijdſins, og ſpurdeſt fyrer af þeim hvar Chriſtur ſkylde fædaſt? Eñ þeir ſøgdu hønum: Til Bethlehem i Judæa, þvi ad ſo er ſkrifad fyrer Spamañeñ: Og þu Bethlehem a Juda-Lande ert eingann-vegeñ hin minnſta a medal Høfdingia Juda, þvi af þier mun koma Hertoge ſa, er Herra ſkal vera yfir mitt Foolk Jſrael.

Sjaum hier hverſu dijrdlegur og vegſamlegur ad er vor bleſſade HErra og Endurlauſnare, þvi þo hanns Hœtign læge um Stund ſo ſem hulen under audvirdelegre Þioons Mind, þa hlaut þad ſamt ad vottaſt, ad hann hafde allt Vald, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. 18. þvi eru Himen og Jord til reidu, ad veita hønum ſijna Þioonkan, og ſo maa virdaſt, ſem Himnaña Kraptar prijſe hier hañs Fœdingu, þar ſem Stiarna ſw, er Textenn umgetur, bodade hana Vitringunum i Auſtur Alfu, og atte þetta miked vel vid Eſued, þvi hann var ſialfur ſw Stiarn,

Stiarnan sem uppran af Jacob, 4. Mos. 24. 17. hvoria þær himnesku Morgunstiornurnar Job. 38. 7. tigna og tilbidia, þad er Guds H. Englar, sem sier jafnan hans Auglit a Himnum, Matth. 18. 10. Þesse blessada Jacobs Stiarnan hoof þegar i sijnum Uppruna ad skijna i fiarlægum Stødum, upplysande med sijnu Nadar Liose, Hiortu og Hugskot heidenna Manna, so þeir gæfu sig a Tafar, til ad leita ad þessum nijfædda Gydinganna Kongs. Og took hier strax ad rætast Spadoomur Esaiæ, Es. 49. 6. er Fadeřen seger um þenna sinn Son: Þad er mier ofliited, ad þu ert minn Þienn, til ad uppretta þær Kynkvijslernar Jacobs, og þad hid bevarada af Israel aptur ad hafa, heldur hef eg og so giort þig til Lioss Heidingianna, so ad þu siert mitt Hialpræde, allt til Veraldarennar Endemarka: Hvorrar Guds Nadar ad vier høfum lijka niootande orded, so um oss er rett talad, Es. 9. 1. Þad Foolk sem sat i Myrkrunum, sier eitt Lioos mikid, og yfir þeim sem byggia i myrkvu Lande, skyn þad klaart. Blessadur sie Gud, sem oss hefur kallad fra Myrkrunum, til sijns dasamlega Lioss, 1. Pet. 2. 9. Gud giæfe vier elskudum ecke framar Myrkred enn Liosed, heldur ad vier gaungum i Liosenu, so ad Myrken høndludu oss ecke. Drottningen af Arabia kom fordum Daga af ytstu Endemørkum Jardar til Jerusalem, ad heyra Speke Salomonis, 1. Kong. B. 10. 1. er var Davids Sonur, og

sat a hans Stoole; Hier koma Vitringar af Austurlande til eins añars Davids Sonar, sem meire var enn Salomon, þvi hann var under eins Davids Herra, sosem hann sialfur medkeñer, er hañ seger: Ps. 110.1. Drottteñ sagde mijnum Drottne: Sit þu mier til hægre Handar, til þess eg legg Ovine þijna til Footskarar þinnar. Sælt er þitt Foolk og þijner Þenarar, sem alltijd standa fyrer þier, og heyra þinn Vijsdoom, sagde Drottningen vid Salomon, 1. Kong. B. 10. 8. Þo eru þeir miklu sælle, sem fyrer sanna Trw eru handgengner ordner þeim himneska Davids Syne JEsu Christo, og med adgiætnum Eyrum heyra hans Raust, i hvörre foolgner eru Fiesiooder Vitskunnar, Col. 2. 3. fyrer hvöria vier alleina lærum ad þeckia Fodurenn, og þann hañ sende JEsum Christum, oss til Saaluhialpar, Joh. 17. 3.

Þa Herodes heyrde nu talad um þeña nijfædda Gydingaña Konung, epter hverium ad spurt var af Vitringunum, skelfdest hañ, þvi hann meinte ad Messias munde verda einn veraldlegur Konungur; Og fyrer þvi, ad hann visse sig þar ecke til Rijkes borenn, þa Ottadest hañ, ad hann munde ridia sig til Rijkes, og steypa sier fra Voldunum; Eñ þesse hanns Hrædsla var saavijsleg, þvi hann villtest, og visse ecke Ritningarnar, þad, ad JEsus var ecke komeñ hijngad a Jord, til þess ad sækia epter veraldlegre Tign: Hanns Rijke var ecke af þessum Heime, þvi gyrntest hañ aldrei Heimsins Met-

Metord, Joh. 18. 36. samt vottade hann fyrer Pilato, ad hann Kongur være, v. 37. Þvi so hafde Faderenn um̃ hann sagdt: Ps. 2. 6. Eg hefe sett minn Kong yfir mitt H. Fiall Zion. Ecke kom vor HErra i Heim þenna, til þess ad frelsa Gydinga af Valde Romveria, hanns Erende var lmngtum ædra, sem var, ad frelsa bæde Gydinga og Heidingia af Valde Myrkranna, Col. 1. 13. það er, Syndareñar, Daudaũs og Diofulsins: Hann kom ecke med veraldlegu Yfirlæte, þvi siñte Heimurenn honum ecke, heldur hoogvær, og af Hiarta lijtellaatur, Matth. 11. 29. þo verandeLioomie Fodursins Dijrdar, og Jmind hanns Veru, Ebr. 1. 3. Ei kom hann med veraldlegre Magt, heldur guddoomlegu Velde, til ad nidurbrioota Port Helvijtanna, so þau skyldu ei megna moote hanns Christne, Matth. 16. 18. Og þvi er hanns Rijke ecke Matur og Dryckur, heldur Rettlæte, Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. 17.

Þad sem Herodi var hier til mestu Skelfingar, þad er mier, aumum Syndara, til betstu Hugguñar, þad, ad Jesus er miñ Kongur, sa ed hefur leyst mig af Valde allra þeirra sem mig hotudu, Luc. 1. 74. og wtvegad mier eilijfañ Frid vid siñ himneska Fodur. Under þiñe Naadar-rijku Kongs-Stioornau, vil eg, miñ Jesu! segeñ lifa og deya, þvi þaa er eg viss uñ, ad einger mijner Ovjner saa mig dreged af þinne Hende, Joh. 10. 28.

Herodes spyr grant epter af Vitringunum

um og þeim Skriftlærdu, hvar sa fyrerheitne Messias ætte ad fædast, epter Ritningunum? Og vill hier um Uppfrædingu þiggia, en hafde þar under foolged Fals og Svikræde, þvi hann hugde sier ad raada Barned af Dogum, so hañ mætte Ohultur vera uñ sitt Rijke, so sem sijdar sagt verdur. Laat, mijn Saal, þetta Dæme þiena þier til Vidvorunar, og varastu ad hafa i fraṁe Svik edur Underferle vid Guds Ords Þenara, sem þier eru sender og setter af Gude, til ad underviijsa þier uñ Veg Saaluhiaalpareñar. Saa sem taaldreaur Drotteñs Þienara, einkum i sijnum Saalar Sokum, hañ giorer Gis ad Gude sialfum, og dregur sig maglega og Taalar, enn Gud lætur ei ad sier hæda, Gal.6.7. Geter þu ecke naad strax þeim retta Skilninge a Guds Ordum, sem þu heyrer af Þienarañs Muñe, þaa spyr þar framar epter med Gaumgiæfne i Hiartans Einfaldleika, so ad Guds Ords Keñendur, kunne med Vitskuñar Lykle, sem þeim er gefeñ, ad upplwka fyrer þier Dyrum Trwarennar, ad þu verder hiaalplegur; Þvilijk Forvitne þocknast Gude vel, nær hun fraṁkemur af Elsku til Guds Ords, og siñar Saalar Velferdar. Hitt er ein vidurstyggeleg Synd, ad hylia Sviken under Faavitskuñar Skyne, og spyria Guds Þienara til ad freista þeirra, edur veida þaa i Ordum, eins og Gydingar giordu vid Christum. Vit fyrer vijst, ad Drotteñ, sem ransakar Hiortun, kañ audveldlega ad lypta Skyluñe fraa þvilijkre Hiart-

ans Hreckvijſe, og giøra hana til opennberrar Mijnkunar. O Drotteñ JEſu, gef oſs ollum med hreinu Hiarta þijn bleſſudu Ord ad ſtunda og rækia, og lát þinn H. Anda upplyſa vorn dapra Skilning, ad vier i þijnu Liooſe mættum ſiá Liooſed, Pſ. 36. 10. og af þvi ſama eilijflega glediaſt. Þier ſie Lof og Dijrd um̃ Allder Allda, Amen.

# 10. Capitule.

Um̃ Fals-Rád Herodis vid Vitringana.

HA kallade Herodes Vitringana til ſijn heimuglega, og iñelega adſpurde þá, ad hveriumTijma adStiarnan hefde láted ſiá ſig? Og vijſade þeim til Bethlehem, og ſagde: Fared þier og ſpyried iñelega ad Barnenu, og nær þier fiñed þad, þá kuñgiøred mier þad aptur, ſo eg kome eiñeñ ad tilbidia þad.

Smidugt foor þeſſe Refur ad hylia ſitt Flárædé under Audmyktar og Gudhrædſlu Skyne: Hañ læzt ſem hann vilie fara lijka ad tilbidia Barned JEſum, nær hañ fær Underviiſañ um̃ þad, hvar þad ſie ad finna, þenkiande ſier ſo med Lempe ad koma Chriſto i Heliu. Svik og Underſéele er ſiu Lyſt, ſem ſá gamle Þuſund Viela-Smidur, Satan, kenner Bornum Vantrwarenar: Joab hulde Hiartans Hreckvijſe og Vond-

ſku under Vinſemdar Kæpu, þaa hann midt i Vinœttu Samtale ſloo Abner i Hel, 2. Sam. 3. 27. Med Underferle og Svikum hafde Jeſſabel Naboths Lijf, 1. Kong. B. 21, 13. Med Vielum foor Ziba ad ſvijkia Akrana af Mephiboƶet, 2. Sam. 19. Med Flaarædis Koſſe ſvelk Judas Chriſtum, Matth. 26. 49. Og þyrfte varla ad ſækia Epterdæme Svika og Viela fram i Alldernar, þvi enn i Dag kunna Veraldareñar Born œlitlega ad ſmyria ſijn eitrudu Mord-Vopn, med Faagurgalanns Vidſmiore, hafande Hunang Smiadurs og Blijdmæla a Vorunum, enn Eitur Haturs og Hreckviſe i Hiartanu, hvar um David kvartar, Pſ. 55. 22. ſegiande: Þeirra Munnur er kleckare enn Smior, og hafa þo Strijd i Sinne, þeirra Ord eru miwkare enn Vidſmior, og eru þo naken Sverd. Þvilijkt ſekſt þeim ad ſonnu ad dylia fyrer Moñum; Enn mun hañ ecke ſiaa þad, ſem Augad hefur ſkapad? Skylde honum nockud Okuñug Hiartans Hreckviſe, hañ ſem dæmer Leyndar-Raad Hiartnaña? 1. Cor. 4. 5. David ſeger: Pſ. 5. 7. Ad Drottenn hate þaa Bloodgiſrugu og Folſku; Þvi vill h. ñ laata þioona ſier af hreinu Hiarta, og Hræſnarenn fær ecke fyrer hañs Auglite ſtadeſt, Job. 27. So ſkoltu lijka vita, chriſtenn Madur, ad hann hatar Svik og Underferle vid Naungañ, hvers vegna hann hefur ſtundum laated þaa Prettviiſu flækia ſijna eigeñ Fætur i ſijnu Svika-Nete, og

hrapa sialfa i þaa Grof, sem þeir odrum groofu. Sialfur giste Haman Gaalgann, er hañ uppreiste handa Mardochæo, Est. 7. 10. Sialfañ sig bioo Achitophel under Snoruna, med Svikraadumim moote David, 2. Sam. 17. Og kuñug er Utfor Svikaranns Judæ, Matth. 27. 5. So hondlar DRottenn þaa Vitru i þeirra Slægsmunum, og uñvellter Raadum Rangferdugra, Job. 5. 13.

Enn hier hiaa þenke eg til mijns JEsu, hversu ad hañ, strax aa Omaalga Alldre, took til ad kenna aa Veraldareñar Hreckvijse: Hañ mætte Svikraadum af Herode, strax sem hañ heyrde þad, hañ fæddur være, og maatte hann blessadur þar epter verda fyrer morgum Vielraadum og Svikum, af sijnum Ovinum; Og hvers munt þu þaa, Saal mijn, vænta meiga; Hafe Verolden eige þyrmt sijnum Skapara, hvad mun hun þaa þier ecke giora? Og er þad aagiæt Huggun fyrer þig, ad þiñ Endurlausnare hefur þetta fyrre lided, þvi med siñe Lijdingu hefur hañ helgad þijna Hormung, og skalt þu þvi vita, ad þu maatt ecke mæla þig undañ, ad bergia aa þeim Kaleik, sem hañ hefur sialfur af drucked. Mege honum þocknast ad lijda vondum Moñum ad veita þier Yfirgaang edur Uñsatur, so þu hafir Ordsok ad klaga med David: Ps. 38. 13. Þeir sem stunda epter minne Saalu, uñsitia mig, og þeir ed mier vilia hid Vonda, tala uñ þad, hvernenn þeir fae Skada giort, og uñgaungast

ecke utañ med Svikrædum; Þaa hugga þig med David vid Hiælpræde DRottens, og seig sem hañ: v. 16. Eg, DRotteñ, bijd epter þier, þu DRotteñ Gud minn munt bænheyra! Og vit ad hañs Almætte er audveldt ad giora til Skamar þañ Hreckvijsa, enn frelsa þañ Frooma af hanns Hende. Enn gleym þvi ecke ad vera varfæreñ i Heimenum, þvi af honum er þeim Froomu hver-vetna Hæske bweñ, og þad helldst, nær hañ er sem blijdastur. Mörgum hefur þad ad Slisum ordit, ad þeir hafa ofmiög vered gefner fyrer Veraldareñar Hroose, og flækt so sinn Foot i hennar Tæl-Snoru, er þeir hafa runned aa Agn Hiegooma-Dijrdareñar, alijka og Herodes Agrippa, er hañ ofmetnadest, nær hañ heyrde ad Foolked hroosade hañs Mælsnille, Post.G.B.12. 22.23. Veraldareñar Losstyr er þo fæanijtur Fesioodur, hann maa framar giora mig Ottaslegenn eñ Andvaralausañ; Þvi þar sem Heimureñ er hvad blijdastur uppi Eyrun, þar er opt og tijdum helldst Von aa Svikum og Underferle, sem.ædur er sagdt, enn meine hañ þad sama i Hiartanu, sem hann talar þaa med Muñenum, þaa mætte eg þenkia ad Heimurenn sielfkade þad hanns være. Þvi er saa hiegoomlega sinnadur, sem leitar epter Lofe i hvers Manns Munne, og varla, edur ecke, kann hann Gude ad þocknast, þvi hann verdur þaa ad dansa epter Heimsens Pijpu; Eñ Jacob seger: Cap. 4.4. Ad Veraldareñar Vinfeinge sie Guds O-

vin-

vinskapur, og hver sem Veralðarennar Vinur vilie vera, sa verde Guds Ovinur.

Herodes vilde lata Vitringana undervijsa sier um JEsum, og snwa so þeirra Erende honum til Falls, sem hann visse þo annars var ad tilbidia hann. So er þessa Heims Bornum þad ecke noog, ad þau giora sialf hid Vonda, heldur og einneñ vilia þau sem flesta draga i siñ Hoop, spilla þar a ofañ annara goodum Verkum, vidlijka og eitt Atu-Mein fordiarfar þad heila Hollded, sem i krijnger, þa þad nær um sig ad grafa. Virdstu DRottenn minn, ad geyma mijna Saal fra þvilijku Raadaneyte, skapa i oss ollum hreint Hiarta, og lat oss þioona þier i hræsnislausre Trw, og elskast innbyrdes i falslausum Kiærleika, so vier med þeim Hreinhiortudu, mættum sia ad sia þig Auglite til Auglites um alla Eilijfd, Amen.

# II. Capitule.

## Um Bæn og Offur Vitringanna.

SEM þeir hofdu nu Kongenum heyrt, fooru þeir af Stad. Og sia, ad Stiarnan, sem þeir hofdu sied i Austur-Lande, geck frañe fyrer þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppyfir, hvar Barned var; Eñ er þeir sau Stiornuna, glodduſt þeir harla miog, og

gengu

geingu i Hwſed iñ, og fundu þar Barned med Mariu Moodur þeſs, fiellu frañ oa tilbadu þad, og, ad opnudum ſijnum Fiaar-Sioodum, gaafu þeir þvi Gull, Reikelſe og Myrru. Og Gud ſkipade þeim i Draume, ad þeir ſære ei aptur til Herodem, og fooru ſo annañ Veg aptur i ſitt Land.

NJJka ſem Auſturvegs Vitringarner fylgdu epter þeſſare Stiornu, hveria Gud hefur ſierdeiles þar til ſkickad, ad hun ſkylde leidſegia þeim til Betlehem; So aatt þu, mijn Saal, ad epterfylgia þeirre fögru Leidar-Stiornu Guds H. Orda, er Gud lætur þier opeñberaſt og fyrer Augum lyſa. Laat þeſſa Stiornuna lyſa þier, frañ wr Myrkre Syndañа; Eñ þu hlijtur þaa ad ſnwa Hugſkotſins Augum fraa Veraldareñar vondum Selſkap, ſo þu kunner Siooner ad feſta, aa þeſſu bleſſada Guds Orda Liooſe, ſem er þiñ einka Leidarvijſer, fraa hvorium þu aatt ecke ad vijkia til hægre nie vinſtre Handar, og ſo muntu faa Jeſum þiñ Lauſnara og Frelſara funded. Epter honum þarftu ei laangа Leid ad leita: Gack iñ i hañs Muſtere, og munt þu hann þar fiña. Chriſtnen heiter Guds Hws, 1. Tim. 3. 15. heñe hefur JEſus gefed þad Fyrerheit, ad hann ſkylde vera hiaa henne alla Daga, allt til Veraldarennar Enda, Matth. 28. 20. Jnn i þetta Guds Hws, ertu, mijn Saal, þegar

kom-

komen af GudsRaad, fyrer hanns Orda Krapt og Leidarvijser; Sia til þu um̄gaangest i þessu Hwse, ecke so sem faavijser, heldur so sem vijser, skyniande hvad Vilie Drottens er, Eph. 5. 15. 17.

Nu er hier lijka eitt annad Herberge, sem JEsu tilheyrer, þad er Hiarta þitt, er han̄ helgade sier tiꝛ Jbwdar i H. Vatns Skijrn. Skygnstu grandgiæfilega in̄ i þetta Hws, hvert JEsus er þar bwande fyrer Trwna, 2. Cor. 13. 5. Hafe Lioos Guds Orda naad þar yfir ad skyna, og innplanta þar fijna Avexte, sem eru: Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolennmæde, Blijdleike, Goodgyrne, Trw, Hoogværd, Hreinlijfe, Gal. 5. 22. 23. þa er Jesus Christur þar in̄e bwande; En̄ finner þu þetta ecke hiaa þier, heldur þar þvert aa moote: Agyrne, Ofund, Vantrw, Hræsne, Hatur, Sundurþyckiu, og fleira þesshaattar, þaa er JEsus burt viken̄. Þvi þad maattu fyrer vijst vita, ad ei vill han̄ nie kann, ad eiga þar Sess med Ohreinum Ofinum, þad er, saurugum Hollds ins Gyrndum. Þessa Vo-Geste verdur þu wt ad reka, vilier þu Jesum herbergia, þvi Ambaattaren̄ar Sonur skal ei erfa med Syne hinnar Friaalsu, Gal. 4. 30 Abraham rak burt Ambaattena med hennar Syne, þaa hun vilde drottna yfir Sara, 1. Mos. 21. 10. Gior eins vid Hollds ins skadlegar Gyrnder: Rek þær wt i Audn, er þær vilia drottna yfir Andanum; Þvi hvornenn kann Christo ad koma saman̄ vid Belial? Edur hvort Samlag hefur Liooſed

med Myrkrunum? 2. Cor. 6. 15.

J añañ Maata merk, miin Saal, ad þesset Vitringaar færdu Barnenu JEsu veglegar Foorner. Nu þoott hañ vilie ecke af þier þyggia lijkamlegar Foorner, fyrer sialfañ sig, þa ættu ei ad sijdur, ad offra honum andlegum Foornum, so sem David seger: Ps. 50. 14. Offra þu Drottne Lofgiørdeñe og giald hinum Hæsta þijn Heit. Vitringaña Offur vaar Gull, Reikelse og Myrra. Vid Gulled er Trwne samlijkt i Guds Orde, 1. Pet. 1. 7. þvi so sem Gulled reyneft i Elldenum, so proofast og ebleft Trwen i Mootgaangenum; Gulled er hid fiemætasta af Jardareñar Maalmum; Trwen er hid allra dijrmætasta i vorum Christeñdoome, ja, hun er alls Christeñdoomsins Lijf, þvi aan Trwareñar er Omøgulegt Gude ad þocknast, so sem Paall, Ebr. 11. 6. seger. Eñ þad er Sorgen, ad Trwen vor vill miøg so veikiast og bila, þegar a þarf ad reyna, nær Guds Hiaalp er ecke fyrer Augunum, jafnvel þo vier meigum margsiñes þreifa a þvi, ad Gud hefur Otal Vege oss til Hiaalpar, þar sem vor skamsynu Augu siaa eingañ. Mikell er Veikleike og Vanmaattur miñar Trwar, er mig astrijder; Eñ þu, miñ JEsu, sem betst þecker hvørs eins Vankvæde, laat þo þeñañ lijttlogande Horeñ ecke wtslockna, heldur virdstu ad blaasa þar ad med þijnum H Anda; So þad Siggs-korned, er þu sialfur sendrad hefur, mijnu

brot-

brothætta Leyrkere, mætte vardveitast fyrer þiñ Nꝍdar-Krapt, sem þu hefur lofad ad lꝍta füllkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. 9. Med Reikelsinu teiknast Bæner Guds Barna, so sem seger i Op. B. 8. 4. ad Reikur Reikelsisins af Bænum þeirra Heilogu, hafi genged upp af Hende Engelsins fyrer Gud, þad er, Engels hins mikla Rꝍds, JEsu Christi, sem gefur til Bæna allra Heilagra sijna Arnan og Fyrerboon, i hvorrar Krapte ad vor Bæn lipter sier i Hædernar, og þreynger sier i gegnum Skijen, frañ fyrer Nꝍdar Auglit Guds, fyrer hvorium hun er sem sætur Ylmur, eñ þa betur luktande, heldur eñ Klæda Ylmur Jacobs, 1. Mos. 27. 27. fyrer Jsaacs Vitum. Þetta Reikelsid ꝍttu, christeñ Madur, ad leggia uppꝍ þad himneska Reikelsis Altared, JEsum Christum, so þad mege upptendrast med Elde af Himne, þad er H. Anda, sem er Ande Bænareñar, Zach. 12. 10. Og mun aptur ofañstijga til þijn af Hædum blessud Endurnæring og Hiꝍlp i ollum Naudum, þvi DRotteñ seger siꝍlfur fyrer Davids Muñ: Ps. 50. 15. Akalla mig i Neydeñe, eg vil frelsa þig, og þu skalt vegsama mig.

Myrran, sem hefur beiskañ Smeck, eñ gefur þo sæta Lukt, og var brwkud hiꝍ þeim i Austur Alfuñe, til ad vardveita framlideñ Lijk frꝍ Forrotnan, mꝍ merkia Deydingu þess gamla Mañsins, og Lijfgun þess nija; Þetta er ein Beis-

fia Hofde og Bloode, eñ þo sæt Ølman fyrer Gude, og honum hiñ þægasta Foorn, nærst Trwöñe a Jesum Christum. Þetta Offur aattu, christen Saala, Gr'de daglega ad færa, þvi daglega eigum vier ad kappkosta, ad læta af illu og læra gott ad giora. Holded gyrnest i moote Andanum, og Andeñ i moote Holdinu, seger Paall, Gal. 5. 17. So þar er eins Lijf añars Daude, so lenge sem Holded lifer og drottnar i Mañsins Limum, þa er Saalen daud i Syndunum; Vilier þu þvi ad Onden lifi i Gude, þa krossfest Holded med Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. 24. so nije Madureñ mege þioona Christo og elska hañ i Oforgengelegleika, sem Paall kemst ad Orde, Eph. 6. 24. þad er i stadfostum Asetninge og hreinum Hiartans Einfaldleika. Vid Myrruna maa Krosseñ lijka samlijkiast, sem er Holdenu beiskur, eñ gefur þo af sier fridsamlegañ Avoxt Rettlætesins, Ebr. 12. 11. Þa er Holded rettelega krossfest, er þad nær ecke ad megla moote Gude, under Krossenum, helldur ad vier tokum hañ uppaa oss, i sinnsu Umburdar Lynde, og fylgium JEsu epter, Matth. 16. 24. Þetta þrefalda Offur, aattu i Anda, Drottne ad færa, og muntu uppskera þar af, Avoxt himneskra Giæda, þvi hvor hañ saaer i Anda, sa mun af Andanum uppskera eilijft Lijf, Gal. 6. 8.

Hier ad auk seger Gudspiallamadureñ: Ad Gud hafi skipad Vitringunum i Draume,

ad þeir færu ei aptur til Herodem, og hafi sofared añañ Veg i sitt Land. Med þessu vard Falsraad Herodis ad eingu, er hañ undirlagde vid Vitringana. So Onijter Guds Almætte Vielræde vondra Maña, nær honum þocknast, þvi eckert Raad duger i moote Guds Raadum, hañ kañ ad hondla þa Vijsu, i þeirra Slægvitsku, 1. Cor. 3. 19. og sundurdreifa Dramblætum i þeirra Hiartans Hugsan, Luc. 1. 51. og frelsa þañ Fæcurrent af þeirra Hende. Þier, O Herra JEsu! gefum vier oss alla til Offurs, med Saalu og Lijfi; Lææt þad af þijnu Lijtellæte, verda þacknæmelega medtekid, og gef ad vier, fyrer þa himnesku Foorn, er þu offrader Gude vor vegna, til Sætleikans Ylms, verdum fullkomner og helgader ad eilijfu, Amen.

# 12. Capitule.

## Um Hreinsun Mariu.

OG þa Dagar heñar Hreinsunar komu, epter Moysis Løgum, hofdu þau hañ til Jerusalem, uppat þad þau lietu hañ koma fyrer DRottiñ, so sem skrifad stendur i Løgmaal Drottens: Ad allt Karlkyns, þad er fyrst opnade siñar Moodur Kvid, þa skylde kallast DRottne helgad, og ad þau giæfi

Offred, epter þvi sem segest i Løgmaale DRottens, tvær Turtil-Dwfur, edur tvær wngar Dwfur.

J Mosis Løgum 3. Mos. B. 12. sette DRotten syrer Barn-Sængur Kvinnunum vissan Tijma, er þær skyldu heima vera, epter sinn Barn-Burd, ædur enn þær gengu til Musteresins, sem var alls 40. Dagar, ef hun ætte Svein-Barn, enn twofaldann Tijma, er hun ætte Mey-Barn, um hvern Tijma hun kalladest Ohrein, ecke ad Konurnar væru þá ødrum Ohreinne, i Guds Augsiте, heldur var þetta nockurskonar wtvortis Sidsemdar Regla, hvar med teiknast ætte sú Syndanna Saurugleike, sem øllum oss er medfæddur, hvar um David talar, segiande: Ps. 51. 7. J Syndenne em eg fæddur, og i Syndenne took min Mooder vid mier. Konan ætte ad vera Ohrein i Sio Daga, til þess Barned var umskored, hvar med þad var innteked i Guds Nædar Sattmaala, enn sijdan kalladest hun ad vera i Bloode sinnar Hreinsunar, til þess ad hun offrade fyrer sinne Hreinsun i Musterenu. Þetta hefur nockra Lijkingu vors Asigkomulags: Vier fædunst dauder i Syndunum, enn i Skijrnenne (sem komen er i Stad Umskurnarennar) hreinsunst vier af medfæddum andlegum Saurugleika, þo so, od vid oss loda Spillingarennar Meniar, allt so leinge ad vier verdum ecke leyster frá Lijkama þessa Dauda,

og færder til þess Musteres, sem ei er med Hondum giort, 2. Cor. 5. 1. Þegar Eva hafde broted Guds Logmaal, so væntanlegt var, ad hun munde fæda Born epter sinne Mind, þaa feck hun þaa Avijsun af Gude: Ad hun skylde fæda siju Born med Soott og Harmkvælum, 1. Mos. 3. 16. hvad hennar Dætur hafa epter hana i Arf teked; Og þo þetta være þwngur Doomur, þaa var hann þo rettvijs, þvi hann maa vel minna oss aa þad, hversu ad vier, vegna Syndanna, fædunst til Eymdanna, þar vor Inngangur i Heimenn skedur med Sorg og Harmkvælum, og vor fyrsta Raustar Græatur og Vein, hvar epter vier sijdann erum underorpner Siwkdoomum, og allskyns Anaud, allt til þess vier leggiunst aptur i Skaut vorrar Moodur Jardarennar. Þetta (sem annad) Synda Straff, bætteft aptur med þeirre Avijsan, sem Maria feck af DRottne, fyrer Engelsins Bodan: Ad af henne ætte ad fædast þad Heilaga, er Guds Sonur skylde kallast, Luc. 1. 35. Hvers ad allar Ætter nioota, þvi hann var þad Sæded, i hverju ad Þioodernar blessast, Gal. 3. 8.

Tvofalldt Kyrkiu-Erende Mariu greiner Textenn, þad fyrra, ad hun skickade sitt Barn JEsum framm fyrer DRottenn, þad annad, ad framleggia þad veniulega Hreinsunar Offur. Hvad þvi fyrra vidvijkur; þaa skalt þu, mijn Saal, þenkia þar wt af, ad JEsus Christur er saa sanne Frumgetningur, med gamla Testamentesins Frumgetn-

ingum fyrermindadur, fyrer hvern vid erum orden Frumburdur Guds Skepnu, Jac. 1. 18. og honum velþockud, eins og frumgetenn Sonur sijnum Födur. Eg var klakenn af Moodur Lijfe, i Heim þenna, daudur i Syndunum, og Barn Reidennar, Eph. 2. 3. Enn þu, minn JEsu, ert fæddur hellagur, hreinn og fraaskilenn Syndurunum, Ebr. 7. 26. og med þvi sama riedest blessud Bootaa mijnum Eymdar-Hag, so eg feck nijtt Lijf i Gude, Eph. 2. 5. strax sem ad Kraptur þijns dijra Bloods draup yfir mig i H. Skijrn, og helgade mig Gude til æfinnlegs Eigenndooms, ad burt-hreinsudum mijnum medfæddum Saurendum. Blessadur siertu, þu himneske Frumgetningur medal margra Bræddra, hveria þu hefur giort þijna Samarfa ad eilijfre Dijrd, Rom. 8. 17. Enn hvad aahrærer Kvennaña Hreinsunar-Offur, þaa aattu þær, nær þeirra Hreinsunar Dagar voru wte, ad frambera Vetur-gamallt Lamb til Brenne-Foornar, eñ eina wnga Dwfu edur Turtil-Dwfu til Synda-Offurs; Eñ ætte Konan ecke Lambed, þaa skylde hun frambera tvær Turtil-Dwfur, edur tvo Dwfu Unga, adra til Breñe-Offurs, enn adra til Synda-Offurs, 3. Mos. 12. Vitañlegt er, ad ei þurfte Maria ad offra fyrer siñe Hreinsun, so sem sw, er geted hafde sitt Barn af syndsamlegu Sæde, þvi sitt Barn gat hun af H. Anda, Matth. 1. 20. og heñar Sonur var saa same, sem sialfur var komeñ ad wtleggia

Hrein-

Hreinsunar-Offur fyrer allann Heim; Samt villde hun hlijdnast þessu Logmaale, til þess ad votta sitt Hiartans Þacklæte vid Gud, er virdte hana þess, ad verda Mooder ad hanns eingetna Syne. Maria offrade ecke þvi veturgamla Lambe, sem ækvardad var i Logmaalenu, heldur Dwfu i þess Stad (eins og þær fatæku Konur ættu ad giora) eñ hier færde hun med sier eitt añad Lamb, þad var Lambed Guds, sem bar Veraldarennar Synder, Joh. 1. 29. hennar Sonur JEsus Christur, er sijdann var upptendradur æ Elld-Glædum gudlegrar Reide, æ Krossens Alltare, og keypte oss undañ Guds Reide Eggse, ecke med Fiñ Siklum, eins og Frumburderner voru med keypter i gamla Testamentenu, heldur med sijnu eigenn Bloode, 1. Pet. 1. 19.

Af þvi sem nu er sagt, skalt þu, christeñ Madur, þier til Lærdooms taka, ad þu þacker Gude fyrer þau Born, er hann gefur þier; Þau eru Guds Giof, seger David, Ps. 127. 3. og sæ Rijkdoomar, sem oss fylgia æ iñ i Guds Rijke; Þvi ber honum Þacklæte hier fyrer. So prijsade Lea Drottiñ, þæ heñe gæfust Born, og er hun fædde Judam, sagde hun: 1. Mos. 29. 35. Þvi vil eg þacka DRottne; Og til frekare Miñingar, þa liet hun Nafned Barnsins svara þessu, þvi Judas þijder Medkeñara. Fagrañ Lofsaung kvad Anna, er Samuel var heñe fæddur, 1. Sam. 2. Þvi næst ættu ad færa Barned þitt til Jesum; Miñ-

stu þess, er hañ sagde: Leifed Bornunum til mijn ad koma, og bañed þeim þad ecke, Marc. 10. 14. So sem Gud gaf þier Barned, so attu þad Gude aptur ad gefa, eins og Anna sagde: Eg gef hann (Samuel) Drottne alla hañs Lijfdaga, 1.Sam. 1.28. Eñ þetta skal gioraſt, fyrſt med yduglegre Bæn til Guds fyrer Barnenu, og þar næſt med chriſtelegu Uppfooſtre, i Aga og Umvondun til Drotteñs, Eph. 6. 4. Þad er viida Sidvenia Mædraña, ad leggia Barned a Briooſt; Enn hvad sem um þad lijdur, þa legg Barned þitt a Jeſu Nadar Briooſt, lat þad iñdrecka þa skiru Mioolk hañs blessudu Orda, og þad ſtrax a toomann Magann, epter þvi sem mogulegt er, þad er, adur eñ þad nær ad verda samdauna þessum vonda Heime, so þad mege, asamt med Prosska Lijkamañs, vaxa ad Nad hia Gude og Monnum, Luc 2. 52. og mun Barned þar af leida Farsælð i Heimenum, og Fullsælu i Himnenum. O þu trwfaste HErra JEſu! Þig bid eg af Hiarta: Virdstu ad bera oll mijn Born fyrer þijnu Myskunar Briooste og Hiarta, teikna þau i þijna Loofa, Es. 49. 16. til æfiñlegrar Blessunar Minningar, vardveit þau fra þvi Vonda, og þegar þiñ Tijmeer, þa leid þau af þessum Heime, inn a Land lifande Maña, so eg mætte samfagna þeim og þau mier, asamt ollum þijnum Utvoldum, i Himnarijkes Dijrd og Glede eilijflega Bænheyr þad fyrer þijns Nafns Saker, Amen.

13. Cap.

# 13. Capitule.

Um̃ þann gudhrædda Simeonem.

Og ſiaſt, ad eiñ Madur var i Jeruſalem, ſa er Simeon hiet, og þeſſe ſame Madur var rettlatur og gudhrædꝺur, væntande epter Huggun Iſraels, og H. Ande var med hønum; Og hañ hafde Andſvar fenged af H. Anda, ad hañ ſkylde eige Daudañ ſiá, nema hañ ſæe ádur fyrre Chriſt DRottenns; Og hann kom af Andañs Tilladan i Muſtered.

NEr hier, mijn Sál, nockud af Simeonis Dæme, ſo þu náe meger Simeonis Hlutſkipte: Hann var rettlátur Madur og gudhrædꝺur. Eingeñ Lyſt er ſo koſtuleg, og eingeñ Lærdoomur ſo ágiætur, ſem þad, ad Ottaſt Gud i allre Høndlan, og vardveita hañs Vegu i chriſtelegu Frañferde: Øll mañleg Ydia og Aſtundan er eingu nijt, nema hun ſie kriddud med Guds Otta, þad er ſw ædſta Lucka er þu náe kañt; Þvi Páll ſeger: 1. Tim. 4. 8. Ad Gudhrædſlan ſie til allra Hluta nytſamleg, hafande Fyrerheit þeſſa Lijfs, og hiñs epterkomanda. Þvi þo eiñ gudhrædꝺur Madur hafi ecke miklu Veraldareñar Láne ad fagna, þa er þo Drotteñ hañs Hiartans Hlutſkipte

skipte, Ps. 73. 26. hvar vid hañ gledur sig i ollum Sorgum og Anaudum, lꝏngtum betur eñ Veraldareñar Born vid sijn Andæsi, þvi hañ veit ad þessa Heims Mind forgengur, 1. Cor. 7. 31. eñ Arfskipte Gudhræddra er Ovisnanlegt og Oforgengelegt, 1. Pet. 1. 4. Þar fyrer, Saal mijn, ven þig til Gudhrædsluñar, stunda þad i Lifnadenum, sem David um sig talar, segiande: Eg held Vegu Drotteñs og breite ecke Ogudlega i moote mijnum Gude, þviad alla hañs Dooma hef eg mier fyrer Sioonum, og hañs Bodordum fleige eg ecke burt fra mier, Ps. 18. 22. 23.

Textañ seger: Ad H. Ande hafi vered med Simeone.; Þvilijkt er hin mesta Heill og Æra, er syndugur Madur fa kañ, þvi þo H. Ande bwe ecke so rijkuglega, og so ad segia þreifañlega hia Moñum nu a Dogum, so sem a fyrre Tijmunum, þa fær hvert eitt trwad Guds Barn so rijkuglegar Astgiafir hañs, sem þad nockurn Tijma þurfa kañ til Saaluhiꝏlpar, og þvi seger Paall: 1. Cor. 3. 16. Vited þier ei, ad þier erud Guds Mustere, og þad Guds Ande bygger i ydur: Og er þvilijkur Madur eiñ Ande med Gude, Cap. 6. 17. og hefur sijfeldañ Forsmeck epterkomande Aldar, þvi H. Ande er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. 14. og ber Vitnesburd vorum Anda ad vier seum Guds Born, Rom. 8. 17. hañ hefur Huggun i Mootlætenu, Glede i Sorgunum, Styrk i Freistingunum, og Lijf i Daudanum;

Þvi

Þvi ef ad Obededoms Hws bleſſadeſt medann Seattmaals Orken var þar iñe, 2. Sam. 6. 11. miklu framar mun bæde Saal og Lijf bijda allskyns Bleſſan af Guds Anda Ibwd og Nærveru. Eñ miñſtu, chriſteñ Vin, Pauls Orda: Hañ ſem fordiarfar Guds Muſtere, hañ mun Gud fordiarfa, 1. Cor. 3. 17. Þetta ſkedur, þegar Samviſkan er saurgud med vondum Lifnade, hvar med H. Ande burtſtyggeſt, og Hiartad, ſem a ad vera hañs Muſtere, gioreſt Ræningia Bæle, þa ſaa Ohreine Ande nær ad rijkia þar iñe i vijsvitande Syndum og Loſtum; Þvi ſeger Ritningen: Snerted eckert Ohreint, þier ſem bered Ker Drotteñs, Eſ. 52. 11. Hvar af vier eigum ad laata oſs ſagdt vera, ad hreinſa oſs af øllum Saurugleik Holdſens og Andans, 2. Cor. 7. 1.

Framar meigum vier af Textanum ſiaa, ad þad er ecke til forgefens ad þiona Drottne: Simeon vardveitte Vegu Drotteñs i Guds Otta, og liet leidaſt af H. Anda; So vijſade hønum Andeñ i Muſtered, til ad ſiaa þar og ſkoda þa Israels Huggun, epter hvorre hañ i Voneñe beded hafde, þad er, Jeſum Chriſtum Heimſins Lauſnara. Þetta ſama Hlmt[illegible]pte, kañt þu, mijn Saal, ad odlaſt eñ i Dag, ef þu gefur Guds Anda og Orde Rwm i þijnu Hiarta. Ad ſoñu kuñum vid ecke ad ſiaa Jeſum med ockar Lijkamans Augum, eins og Simeon, þvi hañ er ad ſynelegre Umgeng-ne vikeñ fraa Heimenum; Ei ad ſijdur kuñum

vid i Trwõñe ad lijta og skoda ockar blessada Lausnara med øllum sijnum Forþenustu Velgiørningum, so vel sem Simeon, þvi hañ er ockur fyrer Augum i Ordenu uppmaaladur, Gal. 3. 1. Þvi seger og Postuleñ: 2. Cor. 3. 18. Vier skodum aller Byrte Drotteñs, so sem i Spegle med Ohuldre Asioonu. Israels Børnum Ognade ad horfa a Geislum-stríaalande Mosis Andlit, 2. Mos. 34. 33. Eñ þegar eg med Trwõñe næ ad horfa a Jesu Christi allra skiærustu Asioonu, þa hverfur allur Hiartans Kvijde, þvi þar af standa þeir blessudu Nædar og Myskunar Geislar, er glediа Saalena, endurnæra Hiartad, og fridstilla Samvitskuna; Þvi þesse Dijrd JEsu Asioonu bodar þad Rettlæted, sem duger fyrer Gude, til ad afmaa allt mitt Ranglæte, so eg þurfe ecke i Forsmaan ad wtrekast fraa hañs Auglite. Uppaa þig mæne eg, miñ sætarste Jesu, mijnum Trwar Augum, þegar Sorgaña Bylgiur ad-dynia; Lijt þu þa, Drotteñ miñ, aptur til mijn Myskunar-Augum þijnum, og laattu þijna Asioonu lysa yfer mig, so eg þijns Hiaalprædes niota mege bæde i Lijfi og Dauda. Sæll var hiñ gudhrædde Simeon, er hañ feck ad siaa med Lijkamañs Augum alls Heimsins Lausnara, og taka hañ uppaa sijna Arma, sem honum hefur maatt afla fierdeiles Hiartans Glede; Eñ hvad sagde Herrann sialfur vid Thomam? Sæler eru þeir, sem ecke siaa og trwa þo, Joh. 20. 29. Ecke kuñe sio lijkam-

amlega Siooncn ca JEsu ad hiaalpa, nema sw andlega hefde medfylgt, eñ sw andlega hiaalpar med fullum Krapte þo hina vante; Med Lijkamans Augum kuñe Simeon einasta ad siaa hañ, sem eina Mañeskiu, eñ med Trwar-Augunum leit hañ hañ, so sem þañ er komeñ var ad giora Syndarana Saaluhoolpna, 1. Tim. 1. 15. og i þessare Siooneñe er mest Sælan iñefaleñ, jafnvel þo þvi sie ecke ad neita, ad sw lijkamlega Sioonen aa Jesu, hafi eblt og auked Gledena i Hiartanu hiaa þeim Guds Moñum, sem hun heppnadest, hvad Christur aavijsade, segiande so til Lærесveinaña: Sæl eru þau Augu, sem siaa hvad þier siaaed, Luc. 10. 23. Samt hafa þeir Merg og Krapt Sælunar, sem hafa Jesum fyrer sitt Hugskots Augna Mid, og fadma ad sier hañs dijrmætu Forþenustu med Ormum Trwareñar, jafnvel þo þeir faae ecke ad siaa Jesum med Holdsens Augum. Hiner, sem ecke vilia trwa aa Jesum, nema þeir siaae hañ eins og Thomas, eru eins og þeir, sem ecke vilia trwa nema þeir siaae Teikn og Stoormerke, Joh. 4. 48. Eñ þesser gefa Guds Anda og Orde Dijrdena, og laata þad alla Verkunena hiaa sier hafa, þo syneleg Teikn vante, þvi þeir hafa sialfaн Kiarna Trwareñar, hvør ad er øruggt Traust þeirra Hluta, sem Madur vonar eñ sier ecke, Ebr. 11. 1. þad er þeim noog, ad þeir faa ad siaa Jesum i Anda hier i Naadeñe, og skulu sijdañ siaa hañ Auglite til Auglites i Dijrdeñe,

1. Cor.

1. Cor. 13. 12. Þegar Stephanus Pijslar-Vottur var i Helgrijttur, þa sa hañ Himenenn openn, og Guds Son standande til Fodursins hægre Handar, Post. G. 7. 56. af hvorre Sioon hañ hresteft i Hiarta, geck gladur moote Daudanum, befalande siñ Anda i Frelsarans Hendur. Þar sem þu, Sal mijn, hefur þijn Trwar Augu fest a Jesu, þa þarftu eckert Heimsins Adkast edur Arasir ad Ottast, og ecke sialfañ Daudañ. Hitt er þier Soome ad lijda med þijnum Frelsara, hvar til hañ mun sialfur styrkia þiñ Vanmatt, eñ þetta verdur þier Jñgangur til eilijfrar Glede. Drottéñ miñ Jesu, uppliwk þu Augum mijns Hugskots, so eg sie þau a þier fest, adur eñ eg skal vid Heim þeñañ skilia, og þa Daudañs Myrkur formyrkva mijn Lijkamans Augu, þa gef, Drotteñ, ad Trwar Augun mætti sem allra augliooſast sia þig, so sem þañ, er fyrer mier hefur Himnenum uppsloked, og situr til Fodursins hægre Handar, reidubweñ ad taka mijna Saalu i þiñ wtbreidda Myskunar-Fadm, so eg odlast mætte ad sia þig og skoda, fyrer utañ alla Skugg-Sia, um Alder Alda, Amen.

## 14. Capitule.

### Um Lofsaung Simeonis.

Og þa er Foreldrarner hofdu Barned JEsum i Mustered, ad þau giordu fyrer honum eptir Sidven-

iu

ũn Logmalſins, þa took hañ hañ uppa
ſijna Armlegge, lofade Gud, og ſagde:
Nu lattu, DRottenn, Þioon þiñ epter
Ordum þijnum i Fride ſara, þviad mijn
Augu hafa ſied þitt Hialprad, þad þu
tilreidder fyrer øllum Pioodum, Lioos
til Uppbyrtingar heidnum Pioodum, og
til Dijrdar þijns Foolks Iſrael.

HAtum ockur, mijn Saal, þenkia hier epter med
ſꝏm Ordum, og merkium fyrſt: Ad þa Sime-
on hafde teked JEſum uppa ſijna Arma, lof-
ade hañ Gud, og ſagde: Latt þu nu Drotteñ
Þioon þiñ i Fride fara. Saddur Lijfdaga hef-
ur hañ talad þeſſe Ord, hañ hafde leinge þreyd ept-
er þvi, ad meiga ſiꝏ Meſſiam, og ſem hañ hafde
þad fenged, og Jeſum uppa ſijna Arma teked, þa
vill hann fegeñ deya, þvi hañ gyrnteſt nu eckert fra-
mar, er hañ ſꝏ kunne i Heimenum; Og ſo er hver
eiñ lyndur, ad hañ vill fegenn leyſaſt hiedañ, og ve-
ra med Chriſto, Phil. 1. 23. ſꝏ ſem ſijn Trwar
Augu hefur feſt a JEſu, þar af fenged Forſmeck
epterkømandeAlldar, og þecker rett þetta Hiervijſt-
ar Lijf, hverſu ad þad er fullt Strijds og Armædu,
og kann eingann ſtadfaſtann Frid ad gefa, ſo
Job hefur ſagt: Madurenn af Kvinnuñe fæddur,
lifer ſtutta Stund, fullur Onꝏdar, Job. 14. 1.
Satan lætur aldrei af ad ſtrijda a Guds Børn,
þvi hann gengur uñ krijng ſem greniande Leon,
leit-

leitande ad þeim sem hann uppsvelgt fæe, 1. Pet. 5. 8. Lijtenn Frid gefur Verolden þeim, sem ecke eru af hennar Hoop, hvervetna er þeim af henne bwed Hatur, Offsookn og ymisleg Erting. Hvad miklar Oeyrder vekur sa gamle Adam i Hiartanu og Samvitskuñe, er hann strijder mote Andanum? Og þesse Ofridar Hreggvidre ska ka vora jardnesku Tialdbwd, æ so leinge vier hlioo tum med hana ad velkiast, alla vora Pilagriims Reisu, fra Vegguñe til Grafareñar, hafande hverge blijfannlegann Samastad, Ebr. 13. 14.

Ad farai Fride ma hier lijka merkia, ad leysast wr Fangelse (epter þvi sem Textañs Ord merker stundum). Hierviftar Lijfed er sem añad Fangelse, i hveriu Hiartad stynur og andvarpar: Eg vesæll Madur, hver vill frelsa mig af Lijkama þessa Dauda? Rom.7.24. Fangeñ hlijtur ad sitia i Fangelsenu, til þess ad Herrann gefur hann lausann; Ecke kunnum vier vid þessa Lijfs Armædu ad losast, fyrre enn DRotteñs Tijme er ad lata oss i Fride fara. Sæll er sa, sem tekur med Polennmæde af Guds Hende bæde Lijfe og Dauda, i þeirre Trw, ad hvert hann lifer eda deyr, þa sie hann DRotteñs, Rom.14. 8. Þa hid fyrsta forum vær og verdum i Omeingudum Fride, er vier hiedañ wtleysunst; Þa leggst Holded til roosamrar Hvijldar i Jordunne, eñ Salen verdur færd til þess eilijfa Fridar-Lands, hvar JEsus Christur hefur henne tilbwed Oendanlegañ

Frid

Frid og Fognud, Glede og Roosemd. Vilier þu nu, mijn Saal, nioota þessarar blessudu Fridar Vistar, epter þetta Armædu-fulla Lijf, þaa stunda kostgiæfilega Dæme Simeonis: Hann, med Guds Otta, i Trw og Von, beid epter Huggun Israels, og leysftest so hiedañ i Fride. Aller þeir sem Fridenn elska, lifa fridsamlega vid Naaungañ, giora eingañ Frid vid sijna Saalar Ovine, vard-veita JEsu Fridar Giof i trwudu og þoleñmoodu Hiarta, bijdande so daglega sinnar Burtfarar, til þess þeirra Umskipting kemur, þeirra Utfør af Heimenum verdur i Fride, so sem Johannes seger: Opennb. 14. 13. Sæler eru, i fraa þessu, þeir Frañlidnu, sem i DRottne deya, jaa, Andenn seger, ad þeir hvijle af þeirra Erfide.

Þar næst skulum vid, mijn Saal, þenkia epter þvi, ad Simeon kallar i Textanum JEsum Christum: **Lioos til Uppbyrtingar heidnum Pioodum.** Fedur vorer gengu fordum frañ i Ofriooffsomum Myrkra Verkum, er þeir dijrdk-udu Stocka og Steina, og lifdu epter Iñbyrlingu blindrar Naatturu, hafande ecke ad segia af Guds Orda Lioose, þeir voru aan Guds i Heimenum, og fyrer utann Christum, Eph. 2. 12. So vorum vier i þeim Myrkraña og Reideñar Born. Þessu andlega Myrkre aatte epter ad fylgia eilijft Kvala Myrkur; Eñ þar upprann eitt Lioos af Hædum, er lyste þeim sem saatu i myrkvum Dal og Daud-anns Skugga, so sem Esaias fyrer sagde, Es. 9. 1.

Þad

Þad er, Jesus Christur, sem er Lioome Födursins Dijrdar, Ebr. 1. 3. og er ordeñ Uppbyrting Heidingianna. Hañ lætur Lioos sijna Orda upplysa Myrkur vors Hugskots, og greida vora Fætur fram wr Villudoomsins Myrkre, a Veg Fridareñs. Lioos sinnar Myskunar lætur hann gledia og hugsvala vorum Hiortum, i öllum Sorgum og Anaudum. Lioos Gudrækneñar tendrar hañs Ande, hia ollum þeim sem af honum stioornast lataa. Lioos eilijfrar Glede gefur hann sijdañ þeim, sem ganga i Lioosenu, og laata ei Myrkuren hondla sig. Lœtum oss i Miñe loda Amiñingu Postulañs: Þier vorud fordum Myrkur, enn nu erud þier Lioos i DRottne, gaanged þvi so sem Lioossens Born, Eph. 5. 8. Og þenkium ecke, ad þad sie noog, ad Gud hefur kallad oss til sijns daasamlega Lioos, ef ad vier hofum aptur ad niju, Hlut i Ofrioossomum Myrkra Verkum, þvi þeir sem eptersylgia Gyrndum Holdsins, og laata Syndena drottna i sijnum Limum, þeir eru ecke Lioossens heldur Myrkraña Born; Þo Guds Orda Lioos sie fyrer þeim tendrad, þaa nær þad ecke ad skyna iñ i Hiartad, þvi Vantrwar og Athugaleysis Skugge wtebyrger þess Byrtu. Fysn Augnanna, Gyrnd Holdsins og drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. 16. glepur fyrer Augu þeim, ad þeir saa ei ratad Lioossens Veg, verda sijdann Myrkrenu samdauna, so þeir koma ecke til Lioossens, so þeirra Verk straffest ecke, af þvi þau eru vond, Joh. 3. 20.

Þar

Þar fyrer, so sem Giæðska Guðs hefur frelsað oss af Valde Myrkraña, so lœtum oss afleggia Verken Myrkraña, og gaungum i Lioosenu, lœtum Guðs Orð lysa oss, i ollum Liifernes Athofnum; So hvenær sem Dauðaňs Myrkur yfir oss falla, að vier, fyrer Leiðarviiser Lioossens, mættum gegnum þau rata, inn a það eilijfa Lioossens Land. Þess uñ þu oss ollum, blessade Lioosaña Fader, fyrer Sonar þijns Forþenustu, Amen.

# 15. Capitule.

## Um Spaadoom Simeonis wt af Christo.

OG Joseph og hanns Mooder undruðust það, hvað af hønum sagðest. Og Simeon blessade þau, og sagde til Mariu hanns Moodur: Siaa, þesse mun setiast til Falls og Uppriisu marrga i Israel, og til Merkis, hveriu i moote mun mælast. Og eitt Sverd mun þreyngia sier i gegnum þijna Saal, so að augliooser verde Hugskots Þankar margra.

MJJN Saal, særum ockur þetta i Nyt guðrækelega, ockur til sæluhiælplegrar Uppbyggingar. Verdt var það, þo Joseph og Maria undruðust það sem þau heyrdu af Barnenu JEsu, bæde fyrer og epter hañs Fæðingu. Og hvað skyldę undrunarlegra vera mañlegum Skilninge,

inge, eñ ſꝏ mikle Leyndardoomur, ad Gud er opeñberadur i Holdenu? 1. Tim. 3. 16. Vijſt ſkylder þu, Sꝏl mijn, med Hiartans Forundran dꝏdſt ad þeirre grunlauſu Myſkun Guds, ad hañ þyrmde ecke ſijnum eingetna Syne, heldur gaf hañ vt Rom. 8. 32. i Kvøl og Kroſſens Dauda, þier aumre og ſyndugre til Sꝏluhiꝏlpar. Enn þad er lijka, ꝏ ſiñ Hꝏtt, forundrunarverdt, ſem Simeon um̃ ſpꝏer, og Spꝏmadureñ yfir klagar: Ad ſꝏ dijrmæte Grundvallar Steinneñ i Zion, Eſ. 28. 16. er af Uppbyggendum burtkaſtadur, Pſ. 118. 22. og ordeñ ad Aſteitingar Steine, Eſ. 8. 6. Þeſſe Grundvallar Steinneñ er vor bleſſade Endurlauſnare JEſus: Yfir hann og eingann annꝏñ er grundvølluð og byggd vor Sꝏluhiꝏlp, 1. Cor. 3. 11. Hvormulegt er þꝏ til þeſs ad vita, ad hañ ſkule mørgum til Falls verda, og ſw Hiꝏlpræðes Hellan, 1. Cor. 10. 4. ad einne Hneixlunar Hellu, Eſ. 8. 5. Enn hverium verdur hañ þad? Þeim Vantrwudu, ſeger Poſtuleñ, 1. Pet. 2. 7. Vijſt var þo þeſſe Steinn harla auglioos, þvi ſo birlega opeñberadeſt Jeſus Gydingum, med guddoomlegum Tꝏknum og Stoormerkium, bæde i Ordum og Verkum; Enn fyrer þvi þeir vildu ꝏ hverke trwa hañs Ordum nie Verkum, og forøgtudu Guds Raad gegn ſiꝏlfum ſier, Luc. 7. 30. þa hafa þeir ſteitt ſig ſo ꝏ honum, ad þeir hafa ecke beded eñ Bætur þeirrar Hroſunar. Vidlijkt henda þꝏ enn i Dag, ſem reka ſig ꝏ Orded, og þar

eï̄ꝏ trwa, hvar þeir eru uppꝏ setter, 1. Pet. 2. 8. Þad eru þeir, sem ecke-gefa Guds Orde Rwm i sijnu Hiarta: Þeir sem heyra þod Orded af Kroſsemm med þröngum Eyrum, so þad nær ecke ad iñrætaſt i Hiartanu. Þesser medkeña JEsum med Ordunum, enn burtkaſta honum med Verkunum, e. þeir elſka og ydka Synder og Leſte, og lꝏta ecke Minning hanns Dauda deyda i ſier vondar Tilhneigingar. Þeſſum verdur Jeſus til Falls; Þvi hvorneñ kañ Sꝏttmꝏlañs Blood ad koma þeim til Nota, sem þad Footum troda med Ydrunarleyſe og vondum Lifnade? So er Vantrwen þa kröptug, ad giora þꝏ bleſſudu Heilſuboot, er Faderiñ sende ollum Heime, ad Sꝏlar Oltſian, og þad sem ſw eilijfa Giædſkan hugde ollum til Sꝏluhiꝏlpar, þad giörer Vantrwen ſier til enn ſtærre Fordæmingar. Lꝏtum þvi Gydingaña Dæme oſs ad Varnade verda, þvi þad er i Guds Orde uppteiknad oſs til Vidvorunar; Þar fyrer vier, sem lꝏtum oſs þikia sem vier ſtondum, ſiꝏum til ad vier ſollum ecke, 1. Cor. 10. 12. Þvi til þeſs er Jeſus i Heimenn komeñ, ad hañ mætte ollum ad Uppriſu verda. Vier lꝏum fallner, og hofdum aller hraſad medal Ræningia, sem var Dioſullenn med ſijnum Her, er ſvipte oſs vorum Rettlætes Klædum, og lemſtrade oſs daudlegum Sꝏrum, so vier lꝏgum uñvellter i voru eigeñ Bloode; Enn Jeſus Chriſtur Sonur Guds ſagde til vor: Þu ſkallt lifa, Ezech. 16. 6. Hañ droo oſs upp wr vorum

Saurendum, og sette vora Fætur a Hellu-Biarg, sem var sialfur hañ. Sæll er sa, sem ecke hneixlar sig a mier, seger hann sialfur, Matth. 11. 6. Ja, sæll er sa, sem med lifande Trw, trwer a þeña Grundvallar Steineñ, þvi hann skal ecke til Skamar verda, 1. Pet. 2. 6. Hañs Saluhialpar Hws er a Biarge bygdt, so eingen Hs. munga nie Freistinga Hreggvidre fa þvi grandad, og ecke Port Helviitanna, Matth. 16. 18. Gef þu mier, giædsturiike JEsu, ad eg i allre Areynslu mege til þijn flya, og vid þig stidiast og styrkiast, so þinn Kraptur i mijnum Breiskleika fullkomnest, 2. Cor. 12. 9.

Framar seger Simeon: Ad Jesus mune settur verda til Merkis, sem moote mune mælast. Vijst var hann af Drottne uppsettur til Strijds-Merkis ollu Foolke, Es. 11. 10. og Sigurhroosunar Teikns, um þañ Sigur, er hann vann yfir ollum vorum Ovinum; Eñ mijn vegna giordest hann eitt Mootmælis Skotmaal, þegar hañ þolde Brijxlyrde, Formælingar, Ossookner og allskyns Kvalræde, hvar med hann bætte fyrer oll mijn Mootmæle og Ohlijdne, gegn Gude og hañs Logmaale. Minnstu, mijn Saal, a hañ sem þvilijk Mootmæle þolde, Ebr. 12. 3. og lær af honum, ad lijda med Poleñmæde Heimsins Adkast, hvar med þu lijkest ecke einasta hanns signudu Moodur, (hvorrar Hiarta ad Angistareñar Sverd i gegnum smaug, þa hun mætte horfa uppa hann al-

bloodz

bloodugan̄ a Krossenum) helldur og einnin̄ sialfum honum, Guds og Mariu Syne, enn ef vier lijdum med honum, seger Paall, þa munum vier med honum rijkia, Rom. 8. 17. HErra JEsu! Virdstu ad uppreisa mig so wr Syndan̄a Saurendum hier i Lijfe, ad eg kunne sijdar meir, fyrer þijna Forþenustu, wr Grofen̄e upprijsa, og fram̄ganga til Lyffins Upprisu. Þier med Fødurnum og heiløgum Anda, sie Lof og Dijrd ad Eilijfu, A M E N.

# 16. Capitule.

Um̄ Annu Spakonu.

OG þar var Anna Spakona, Dootter Phanuels, af Kyne Asser, hun var komen til Ara sinna, og hafde lifad i Sio Ar med sijnum Eignar Manne, epter sin̄ Meydoom, og hun var nu ein Eckia, hafande Fioora Vetur um̄ Attrædt, hver ed eige geck wr Musterenu, þioonande Gude Noott og Dag, med Føstum og Bænahallde. Þesse geck og samstundis þar ad, og prijsade Drotten̄, og sagde af hønum til allra þeirra, sem Lausnaren̄ar vonudu til Jerusalem.

HJer hofum vier a Annu Spakonu agiætt Epterdæme Hreinlijfesins: Gud hefur kallad

oss, ecke til Ohreinleika, heldur til Helgunar, 1. Thess. 4. 7. því hann elskar skirlijft Hiarta, og hreinferdugt Lijferne, sem aller þeir stunda eiga, er Gude vilia þocknast, bæde i Egtaskapnum og Einlijfenu. Egtaskapurenn er heidurleg og heilög Stiett, Ebr. 13. 4. þvi að hun hverke i Uppbyrianene nie Framgangenum ad flecfast med Lausung eda Losta seme, leynt edur lioost, skule Hioonabanded Gude þægt vera; Miklu heldur eiga, so vel þeir sem það uppbyria, sem hiner er Einlijfid halda, ad geyma sitt Kier i Helgan og Heidre, 1. Thess. 4. 4. lijka sem sa skijrlijfe Joseph, þa hann var æreittur af Potiphars Kvinnu, og sagde: Hvernenn skal eg giora þetta Vonda, og syndga so i moote Gude, 1. Mos. B. 39. 9.

Þesse Anna Spakona var ein Eckia. Einstædingsskapur og Eckiustand er ad vijsu aumt og sorglegt; Enn það er blessud Huggun allra gudhræddra Eckna og Einstædinga, sem halda sier vid Drottenn med Bindinde og Bænahalde, ad hinn Almattuge vill þeirra Mælefne ad sier taka, so þegar hann lætur sijn Born rata i þetta Sorgar Stand, þa vill hann þeim þar med kenna, ad leita allrar sinnar Unadsemdar i sier sialfum, bera so fyrer þeim alla Umhyggiu, so miklu betur enn nockrer Forsvars-Menn, sem hann er þeim bæde mattugre og trwfastare; Þvi hefur hann sterkann Vara teked fyrer þvi, ad giora nockurt Mein Eckium edur Fodurlausum, 2. Mos. 22. 22. og sialfur hialpad

þeim

þeim þrælega med dæsamlegu Moote: Gud uppvakte Boas til Aſiaar þeirre munadarlauſu Ruth, Ruth.3. Hañ ſende Eliam til Eckiuñar i Sarepta, henne til Biargar og Bleſſunar i Hallærenu, 1.Kong.B.17. Siælfur JEſus hrærdeſt af innſtu Medaumkan yfir Eckiuñe i Nain, og bætte alla hennar Sorg, er hann uppvakte hennar Soñ af Dauda, Luc.7. So þad ſannaſt margfalldlega er David ſeger: Pſ.68.6. Ad Drotteñ ſie Doomare Ecknaña, og Fader Fodurlauſra.

Frámar ſeger i Textanum: Ad Anna hafe ecke viked wr Muſterenu, þioonande Gude Noott og Dag med Føſtum og Bænahallde; Lijká talad af Jeſú til þeirra ſem Lauſnareñar bidu. Hier af mæ ſiæ, ad þeſſe gudhrædda Kviña hefur dvaled ſtadfaſtlega i Muſterenu, og jafnvel gefed ſig þar til nockrar Þioonuſtu; So ſem ræda mæ af Ritningunum, 2.Moſ.B.38.8. ad nockrar Konur hafe giort. Og vijſt hefur hun vered þar daglega vid Tijder. Þad ſama gyrneſt David hiartañlega, og þvi ſeger hañ: Pſ.27.4. Eins þæ bid eg af Drottne, þad ſama þæge eg giarnañ, þad ad eg mætte blijfa i Hwſe DRotteñs mijna Lijfdaga, til ad ſkoda þæ ægiætu Þioonuſtugiord DRotteñs Guds, og ad vitia hanns Muſteris; Og þetta hefur hanns Sælar Glede vered, þvi ſeger hañ annarſtadar: Pſ.122.1: Af þvi þa gled eg mig, ad til mijn er ſagt: Ad vier ſkulum iñgæanga i Hws Drotteñs. Þetta Heilagra

Samkvæme er sem Figura þess eilijfa Sabbats, i þeirre himnesku Jerusalem, under hvad vier eigum oss ad bwa, med gudrækelegre Þioonustugiord i Eindrægne Andans, i Drottens Mustere, hvar Hiortu og Twngur Guds Barna eru sem samstilltter Strenger, i Horpu Guds Lofgiorda, hvar af ad sætur Hlioomur uppleggur i Himenenn fyrer Eyru Drottens; Þvi hefur hann sinne himnesku Nnad og Blessan heited þessu Samneyte sinna Barna, er hann sagde 2. Mos. 20. 24. vid Mosen: J hverium Stad sem eg skicka ad vera skule Minning mijns Nafns, þangad vil eg koma til þijn og blessa þig. Hier ad auk eigum vier i ollum Stodum, honum ad þioona med Bindinde og Bænrækne Noott og Dag, ad Dæme hins H. Davids, er seger: Drottenn Gud minn Hialpare, ä Noott og Dege kalla eg fyrer þier, Ps. 88. 2. Og enn þä: Drottenn, ä Noattar Þele minnest eg þijns Nafns, Ps. 119. 55. So leides ä Hiartad ad vera reidubwed, ad upplypta sier fyrer Drottenn ä ollum Tijmum, so mun hann läta sitt Myskunar Andlit skyna yfir oss, i Voku og Svefne, Noott og Dag, so vier meigum med David fagna yfir Guds Vernd: Eg ligg og sef med ollu i Fride, þvi ad þu DRottenn alleinasta hialpar mier, þad eg Ottalaust bygge, Ps. 4. 9. Gud giæfe ockur, mijn Sääl, þad, ad sofna wtaf ä Kvollden fra ockar Bænagiord, og ä Morgnana uppvakna, til hans Lofgiordar; Vijst mun Jesus gista þä ockar Hiartans Herberge, bæde i

Voku

Voku og Svefne. Hañ ætte lijka ad vera ockar tijdaſta Rædu Efne, ad vid mǽſettum ockur eckert añad ad vita, ockur til Hiartans Forlyſtingar og Sǽluhialpar, utañ JEſum Chriſtum, og hann kroſſfeſtann, 1. Cor. 2. 2. allt þángad til vid ſǽmum Lauſn af Lijkama þeſſa Dauda, og verdum færd fram fyrer Stool Guds og Lambſins, til ad þioona honum Dag og Noott i hanns Dijrdar Muſtere. Miñ elſkulegaſte Endurlauſnare, gef þu mier ad hreinſaſt æ meir og meir af øllum Saurugleik Holdſens og Andañs, og þioona þier med hreinu Hiarta, ſo hvenær ſem holdlegra Aſtvina Adſtod þvijn og þrijtur, og Daudañs Noott yfir mig kemur, ad þijn bleſſud Aſt og Trwfeſte virdeſt mier þá betſtu Hiálp og Huggun veita, ſo eg komaſt mætte til þeirra Glede Samviſtanna med ſiálfum þier, ſem þu hefur mier fyrerbwed i Rijke Himnanna. Bænheyr þad fyrer þijns bleſſada Nafns Saker, Amen.

## 17. Capitule.

Uñ Heimreiſu Joſephs og Mariu.

OG er þau hofdu allt fullkomnad epter Løgmále DRottens, ſneru þau aptur i Galilæam, til Borgar ſinnar Nazareth. Eñ Barned voox upp, og ſtyrkteſt i Anda, fullur Vijs-

dooms, og Guds Naad var med hønum.

MIJN Saal, lær hier af Josephs og Mariu Dæme: Ad vilier þu niootande verda Guds Blessunar, til þinna Hwſs-Stioornar Umſvifa, þaa byria þau ecke fyrre, eñ þu hefur aadur golded Gude ſijnar Skyldur. Guds Otte aa ad vera Upphaf, Mid og Ender allra þiña Athafna og Utrettinga. Guds Bleſſan er þad, ſem ſedur þig og vermer, enn ecke þitt Erfide og Forſioon; Þvi ef Drottenn bygger ecke Hwſed, þaa erfida þeir til einkis, ſem þad uppbyggia, Pſ. 127. 1. Þvi aattu aldrei ſo til þinnar Umſijſlunar ad ganga, ad þu hafer ei fenged hana med þier, med Bæn og Gudrækne. Laat þier ei falla wr Hiarta Lausnarañs Reglu, hier um hlioodande: Leited fyrſt Guds Rijkes, og hañs Rettlætes, ſo mun ydur hitt añad tilleggiaſt, Matth. 6. 33. Lwk þvi Gude fyrſt ſijnar Skyldur i Anda og Sañleika, gack ſijdañ til þijns Erfidis, og leita þiñar Atviñu i þijns Andlites Sveita, epter þvi ſem þijn Kallon og Stiett wtheimter, hafande, midt i þijnum Utrettingum, Gud fyrer Augum þier, i hvers Hende aller Hluter ſtanda, Pſ. 95. 4. ſo munt þu hañs Bleſſunar nioota, ſem þier er betre eñ Tiju Syner, 1. Sam. 1. 8. þvi hun giorer einn rijkañ aan Mædu, Ords. B. 10. 22. ſo þar ſem hiner Hugſiwku eta ſitt Braud med Hrygd og Hugar-Vijle, þar gefur DRottenn þad ſijnum Aſtvinum ſofande, ſo ſem David ſeñer, Pſ. 127. 2. Befala þvi Drottens

eñs Forsioon Endalyktena, og tak med Þockum þad, sem hañ vill þier œviñast lœta, hvert þad er meira edur minna, þvi hañ œ friœlst ad wtdeila oss Verk-Prœlum sijnum, so miked og lijted sem hann vill; Þess vegna eigum vier ad lœra, med Pœle, hœer og lœger ad vera, noog ad hafa og Skort ad lijda, Phil. 4. 12. Þad er og Obrygd-añlega vlijst, ad aldrei verdur sœ Rettlœte yfirgefenn, Ps. 37. 25. ad Gud hiœlpe honum ecke med einhveriu Moote, sem um sijder skal þena þeim til Gooda, er hann elska, Rom. 8. 28.

Þetta, sem nu er sagdt, œtt þu, christeñ Madur, i annañ Mœta, ad kenna Barne þijnu, nefnelega: Ad þu innrœter hiœ þvi Guds Ottañ, sem er Upphaf Vitskuñar, Ordskv. 9. 10. og allra goodra Hluta, og sijdañ kenner þvi œrlegt Erfide og Handverk, hvar med þad kunne ad afla sier Brauds og Nœringar. Þetta tvennt: Guds Otteñ, og tilhlijdelegt Erfide, er þad, sem sierhverium Christnum er Omissande: Guds Otteñ aflar Mañe hañs Nœdar og Blessunar, enn Ydnen stodar hañ til þess, ad geta lifad œrlega, sier og ødrum til Uppbyggingar. Af þessare tvøfaldre Root, sprettur Avøxtur allskyns Blessunar, er Madureñ sijdañ nijtur i sijnum Aldurdoome; Þvi hvad Madur nidursœer i Æskunne, þad uppsker hann i Ellenne. Þad er gamall Ordshœttur: Smeckurenn sœ sem kemst i Kier, Keimenn leinge epter ber. Þad sem fyrst verdur innrœtt i Barn-

sins

sins Hiarta, þad loder þar leingst; Þvi skyldr þad eina sva wnge Madur nema, sem honum gomlum være Sæmd ad kuña. Nu er Guds Otteñ og gooder Sider yfir allre Kuñattu, þvi eingeñ er yfir þeim sem Gud Ottast, seger Syrach, Cap. 25. 13. þvi a þetta fyrst allra hia Barnenu ad iñplantast. Þad sem Madur tekur iñ a toomañ Magann ad Morgne, þad er vant ad hafa mesta Verkun hia honum; Þvi att þu, christeñ Madur, ad læta Barn þitt fyrst iñtaka a Morgne sijns Aldurs, þa Ofølsudu Mioolk Guds Orda, so heñar Kraptur meige framveges mest Raaden hia þvi hafa. Kenn þvi af Guds Orde, ad elska Jesum siñ Lausnara, sem þvi og ollum Heime er giørdur af Gude til Vijsdooms, Rettlætes, Helgunar og Endurlausnar, 1. Cor. 1. 30. Kenn þvi ad hata Synder og Leste sem Høggorm, einkum þær, til hverra þu kañst ad sia þess Natturu heldst hneigiast vilia; Eñ elska Dygder og Mannkoste. Þetta attu ad briina fyrer Barnenu daglega, so þad fae Stad i þess Hiarta, adur enn saurugar Holdsins Girnder na sier þar Hreidre. Þvi ef Ungmeñed nær fyrst ad nema adskilianlega Otugt, Bloot og vondañ Muñ-Sofnud, og þad fær fullann Smeck þessarar Veraldar, þa mun torvelldara veita, ad af-þurka þesse Oklærende, so ecke asiae, sierdeiles þar Natturan er alltijd hneigd til hiñs Vonda. Barnenu Jesu jookst Vitska og Naad hia Gude og Monnum: Vilier þu ad þitt

Barn

Barn verde lijkt hañs Jmind, epter þvi sem þessa Lijfs Veikleike þoler, þa so i þess Hiartans Akur Sæde christelegra Dygda, hvar af sijdañ spretta æ meir og meir Andañs Avexter, sem afla þvi Naad-ar hiaa Gude, og Vinaattu hiaa Moñum. Enn þu, kiæra Barn, ef þu gyrnest nockud ad læra, þaa byria a Upphafe Vitskuñar, sem er Otte Guds, tem þier Guds H. Ord, og hald þier vid þess Reg-lu, i Trw, Hlijdne og Andsveipne; Þaa hefur þu þegar byriad þañ beinasta Veg til alltar Blessun-ar, a hveriu ad Jesus Christur, sem þiña vegna er Barn ordenn, mun þijn Ungdooms Ar styrkia, og þijna Æsku uppfræda, so þu dafna meiger, til Mælers fullkomeñs Aldurs Christi, Eph. 4. 13. Gef þu, Herra Jesu, Bornunum af þijnu bless-ada Dæme, allskonar Christenndooms Dygder ad læra, og laat þau i þeim somu eblast og þroast, so þau mættu verda þijnu Nafne til Lofs og Dijrd-ar, um Tijma og Eilijfd, Amen.

## 18. Capitule.

### Um Vitrun Josephs.

ENN þa þeir voru burtfarner, siaa, ad Engell Drottens vitradest Jo-seph i Draume, og sagde: Statt upp, og tak Barned og Moodur þess til þijn, og fly i Egyptaland, og vert þar allt þang-

þangad til eg ſege þier, þvi ad þad er epterkomande, ad Herodes mun leita Barnſins, ad fyrerfara þvi.

MJJN Saal, hugleid hier wt af grandgiæfilega naadarſama Drottens Giædsku, i þvi, ad frelſa þann Rettlaata af Hende þeirra Ogudlegu, ſo þeir naae ecke ad gledia ſig yfir honum; Þvi ſo ſem hann frelſade hier ſin elſkulega Son Jeſum Chriſtum, og ſaa honum farborda undann Herodis Offookn, ſo frelſar hañ og alla þaa, ſem fyrer Chriſtum eru ordner honum vel þockader; Þvi ſeger David: Drotten mun hiaa þeim ſtanda og frelſa þaa, hann mun i fraa Ogudhræddum frelſa þaa, og þeim Hiaalp veita, þvi þeir treyſta aa hañ, Pſ. 37. 40. Uñ þetta ſama komſt David ſiaalfur ad fullre Raun, þvi ſo daaſamlega verndade Drottens Almætte hañ, i þeim Offooknum er hañ mætte af Saul Konge, 1. Sam. 23. 24. 26. Cap. Eins undrunarlega frelſade hañ Jſrael af Underokan og Offookn Pharaonis, 2. Moſ. 14. Ezechiam af Valde Zenacheribs, 2. Kong. 19. Og ſo flytur Drottenn undarlega ſijna Heilaga, Pſ. 4. 4. og lætur þaa ecke þeim Ogudlegu ad Braad verda. Vid þvilijkt meigum vid, Saal mijn, kañaſt aa ſiaalfum ockur: Daaſamlega hefur Ande Guds leidt ockur hiaa Heimſins Hreckia Stigum, og forvarad ockar Lijf i margfølldum Haaſkaſemdum. Gud giæfe, ad vid þar epter værum

gegn

gegn og hlijden hans Advorun! Enn þad meigum vid þo maklega jaata, ad þegar Velgeingnen gled-ur Holded, so Hiasken er ecke so audsien fyrer Aug-unum, þaa erum vid so sein-þreytt til þess, ad geg-na Guds Anda Aminning, og þo hann kalle i Hiart-anu, þa er eins og vid heyrum þad gegnum Svefn-Læte Andvaraleysesins. Gud væge Fraasinnu minne, og gefi mier þo so ad taka sinne Naadar Vid-vorun, ad eg mætte umm sijder fraa ollum Haaska-semdum fullkomlega frelsadur verda!

Joseph feck gudlega Vitran i Draume, ad hann skylde flya i Egyptaland med Barned Je-sum, so hann mætte þar Ohultur vera fyrer Herodis Aráasum. Hvilijkar Vitraner gaaf-ust þraalega aa fyrre Dogunum; Enn nu aa Dog-um hofum vier ecke ad vænta epter slijkum Openn-berunum, þær eru endadar og innsigladar med Op-enberunum St. Johannis, þeirra gioreft ei held-ur Þorf, vier hofum þad skrifada Guds Ord so anægilegt vor aa medal, sem aa ad vera vor Raad-giafe; Saint vilia Draum-Spekingarner ecke vera þar med ánægder, þeir ed reida sig so aa sitt Draum- Ora Rugl, sem gudlegar Vitrauer, hvar med þeir styggia Gud, og leida sig og adra i Villu, þvi þetta er ein Tegund þess, sem Moses umm talar, og seger ad sie ein Svijvirding fyrer Drottne, 5. Mos. 18. 12. Hvilikt er Afguda-Dijrdkan, sem dreigur Hiartad fraa Drottne, og setur Traust aa svikul Holdsens Hyggindi. Ford-

ast

aſt þvi þetta, chriſteñ Vinur, lær ad þeckia Gud og hañs Vilia, af hanns H. Orde; Þad er þier miklu betre Vijsdoomur, þad ſkijrer þier greinelega, hverneñ þu ætt ad þeckia Fødurenn, og þañ hañ vtſende, Jeſum Chriſtum, ſem er þad eilijfa Lijfed, Joh. 17. 3. Læt þier þetta nægia, og varaſt ad ſkygnaſt med holdlegre Fyſn i Tijma og Stunder, ſem Gud hefur ſett i ſiælfs ſijns Vald, Poſt. G. 1. 7. Eñ vilier þu vita nockud uñ þijna Hage i Framtijdeñe, þa les hvad Guds Ord ſeger þier þar uñ, ſem er: Ad þu muner aldrei falla, ef þu treyſter uppa Drottenn, Pſ. 125. 1. Þad er þier noog, ad þijner Tijmar ſtanda i hañs Hende, Pſ. 31. 16. þo þu viter þa ecke. Edur, ſeig mier: Til hvers villtu vita þa? Þeir verda añadhvert iller eda gooder: Siaer þu þa fyrer gooda, þa kann þad ad giora þig andvaralauſann; Eñ ſiaer þu þa vonda fyrer, þa giorer þad þig hugſiwkañ og Orvæntingar-fullañ. Þvi er betſt ad varpa ſiñe Ahyggiu uppa Drottenn, Pſ. 55. 23. ſem alla vora Daga hefur teiknad i ſijna Book, Pſ. 139. 16. og ſo kann Fæðitſkan ad verda þier ad goodu, þvi hun aptrar þier fra ofmikelle Ahyggiu Morgun-Dagſins, eñ hverium Dege næger ſijn Piaaning, Matth. 6. 34.

Engell Drotteñs vitradiſt Joſeph i Svefne. Ecke ſaaum vier nu ad ſiaa Englana, þad geymeſt þvi epterkomanda Lijfenu, hvar vier munum ſia þa þeckt og ſied Auglite til Auglitis. Guds

Orda Upplysing er miklu obluare og stadfastare enn Englanna Opeñberan, þvi Dioful[l]enn kann lijka ad bregda sier i Liooßens Engels Mind, 2. Cor. 11. 16. og svijkia oß frá Gude. Þegar Saul Kongur foor til Frietta vid Galdra-Konuna i Endor, um̃ Utfall tilstandande Orustu, 1. Sam. 28. epter þad, ad Gud var frá honum vikeñ, þá opeinberade Satan sig honum i Samuelis Lijke, til ad styrkia hann i Vantrwñe og Orvæntinguñe; Og þo hañ i þad Sinn segde Kongenum margt satt, þa var þad þo honum ecke nema til Ofbods og Skelfingar. So er hætt vid ad fara kunne fyrer þeim, sem gleyma Traustenu á Guds Orde, enn leita sier Athvarfs i vtþoggnum Bruñum, sem ecke kunna Vatne ad halda, Jer. 2. 10. Látum þvi, Sál mijn, Guds Ord vera ockar Rádgiafa, hvad sem til Handa ber, uppá þad meigum vid Ohrædd reida ockur, sem þad seger. Látum þad vera Lioos á ockar Vegum, og Lampa ockar Foota, Ps. 119 105. so fáum vid betst sneidt hiá Diofulsins Snoru, og ollu Fáre. Þad gefi ockur Jesus Christur, og ollum sijnum Bornum, fyrer sijns eigeñ Nafns Saker, Amen.

# 19. Capitule.

Um̃ Reisu Josephs og Mariu til Egyptalands.







Og hañ ſtood upp, took Barned og Moodur þeſs til ſijn um̃ Noott, og foor i Egyptaland, og var þar allt til Dauda Herodis; So þad uppfyllteſt hvad ſagt er af Drottne fyrer Spaamañenn, er ſeger: Af Egyptalande kallade eg Son minn.

Þenkium hier epter gudrækelega, Saal miin, og hugſum nu fyrſt um̃ Ordſokena til Jeſu Utlegdar; Vijſt var hann heilagur, hreinn og fraaſkilenn Syndurunum, Ebr. 7. 26. Jaa, ſiaalfur Gud, ſem øll Konunganna Rijke hefur i ſinne Hende, og þo hlaut hann ad flya wr einu Kongs-Rijke i annad. Ordſoken hier til var ad ſönnu Herodis Griñd, er þeinkte ad ſvipta hann Lijfe; Enn audveldt var Almætte Drotteñs, ad frelſa ſinn Son hier fraa med ødrum Hætte: Hañ gat laated einn ſiñ Engel ſlaa i Hel hañs Strijds-Meñ, og ſett Krook i hañs Naſer, eins og hann giørde vid Zenacherib, 2. Kong. B. 19. Eñ vor bleſſade Lauſnare var komenn i Heimeñ, til þeſs ad lijda Mootmælen af Syndurunum, Ebr. 12. 3. ſo hañ þar med hiaalpade Syndurunum. Þvi var Ordſøken hin heldſta til Jeſu Utlegdar hiaa ockur, miin Saal: Vid høfdum forþenad Utlegd af Fridareñs Lande, fraa allre Guds Naad og Myſkun, og aattum ad giſta eilijft Kvalanna Myrkur, vegna ockar Synda. Eg hafde raafad Heimſins

Laſta-

Lasta=Stigu, þvi ætte eg, med rettu, ad hneppast i eilijfan Prældoom Daudans og Satans. Þessa Utlegdar Sok sagde Guds Logmaal a Hendur mier, segiande: 5. Mos. 27. 26. Bolvadur vere sa, sem ecke giorer allt þad sem skrifad stendur i Logmaalenu. Enn slijkar Eymder mijnar liet Guds Sonur sier til Hiarta ganga, og geck þvi mijn vegna under Utlegdar Anaud, so hann leyste mig af helvijtskum Utlegdar Prældoome, og utvegade mier frialsann Stad og Fodur=Land, i Rijke sijns himneska Fodurs. Dijrkeyptur vard þier Prællenn, Drottenn minn, er þu, hans vegna, hneppter i Utlegd þinn eingetna Son, i hveriumm þier alleina vel þocknadest, Matth. 3. 17. hver og ad alleina fullnægde þijnu Logmaale. Blessadur siert þu, minn Jesu, sem med þijnum Offsooknum og Onadum, er þu leidst i Holdenu, hefur burt=teked Kvijda og Oroo minnar Samvitsku! Þvi nu veit eg, ad þinn og minn himneskur Fader, mun aldrei giora mig rækann fra þijnu Mysktunar Augs=lite, þar sem þu ert i minn Stad gengenn under Anaudar Oked. Nu er mier þad fyrer minstu, þo Veroldenn meige hria mig og hrekia, þvi þo eg hlioote ad veikiast i þessare Hiervistar Utlegd, hafande ecke blijfannlegan Samastad, Ebr. 13. 14. þa er mier þad vijst, ad þesse Utlegdar Tijme mun einhvern Tijma Enda taka, og eg færdur i mitt Fodur=Land, sem þu hefur mier bwed og tilreidt i Rijke Himnanna.

Textenn seger: Ad þetta hafi sked til Uppfyllingar Hoseæ Spaadooms: Hos. 11. 1. Af Egyptalande kallade eg Son minn. J hverium Ordum ad Spaamadurenn hefur haft Jesum Christum fyrer sitt Augna-Mid, og i Anda fyrersied hans Utlegd aa Egyptalande, hvar ed Jsraels Foolk var fordum i Utlegd halded, af þwngum Þrældoome Pharaonis, þaa sende Drottenn sinn Þenara Mosen, sem wtleidde þadann Foolked, og geck fyrer þvi i gegnum þad Rauda Haf, sem Drottenn sundur-klauf, so þurrum Footum maatte þar yfir gaanga. Enn þegar saa eilijfe Gud vilde frelsa oss af Satans Þrældoome, þaa sende hann einn annann Þenara, er var miklu meire enn Moses, Jesum Christum sinn eingetenn Son, sem med sijnum volduga Armlegg þreif oss af Valde Myrkranna, og sundur-klauf fyrer oss þad rauda Daudanns Haf, hvad hann byriade strax med sinne Utlegd aa Egyptalande, og fullkomnade sijdann fyrer sinn Dauda aa Krossenum. Yfir hann gengu Belials Becker, Ps. 18. 5. sem brwsande Siaafar-Bylgiur, og þar med uppþurkade hann Haf gudlegrar Reide, og vijgde oss þar i gegnum þurrann og frjaalsann Veg, inn i þad himneska Canaans Land. So ert þu, mijn Saal, frelsud af þeirre andlegu Egypto, af Þrældoome og Valde allra þeirra, sem þig hötudu, Luc. 1. 74. og ert wtvalen og fyrerhugud til þess eilijfa fyrerheitna Fridar-Lands; Sem til þig hende ecke sama og Jsraels Sonu, er þaa

laang-

laungade aptur til Kiot-Katlaña i Egyptalande, 2 Mos. 16. 3. Hier eru adrer Kiot-Katlar: Fyst Augnaña, Gyrnd Holdsins og drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. 16. sem marger gyrnast, og gefa sig so a nij under Anaudar Ok þessa Heims Hofdingia, sem drattnar i Bornum Vantrwareña, Eph. 2. 2. Lat þig ei launga, mijn Saal, af Drottens Myskunar Lande, til þessara Kiot-Katla, lat ei Holdsins Munad deysa hia þier Smeck og Krapt Guds Nadar Sætleika. Og þo þu meger bera Hita og Þwnga Dagsins, um̃ Eydemorku þessarar Veralldar, so þig kunne stundum bresta Medlætis Endurnæring Holdsins, þa stid þijnum Bænar og Trwar Staf a þa himnesku Hiealprædes Helluna JEsum, so munu til þijn fliota Vatns Straumar himneskrar Hugsvolunar, af hverium ef nockur dreckur, þa skal hañ ecke hwngra nie þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. 14. Þier kann synast Leiden erdug, inn a þad fyrerheitna Landed, enn miñstu þess, ad Landed er gott, þad flijtur ecke i Miolk og Hunange, helldur er þad yfirdoggvad af Vatns-Falle lifanda Vatns, sem framflytur af Stoole Guds og Lambsins, midt a Strætum þeirrar himnesku Jerusalem, Opeñb. 22. 1. Og þo Ovinerner syne sig i þvi ad veria þier Iñgaungu, þa vit, ad Drottenn hefur þegar byriad ad gefa þa i þijnar Hendur: Þessa Heims Hofdinge er dæmdur, Joh. 16. 11. Broddur Logmalsins sliofgadur, 1. Cor. 15. 54. Port Helvijtaña

niðurbroten, Matth. 16. 18. Dauðenn uppsvelgdur i Sigur, 1. Cor. 15. 54. Minnstu þvi þess, ad þu giører eckert Samband vid þessa Fiandmeñ, sem Jesus Christur hefur þinna vegna ad Velle lagdt; Lꝏt þvi þijna Trw vera sem Davids, er hañ seger: Ps. 18. 40. Þu Drotteñ munt undér mig leggia alla þꝏ sem setia sig upp ꝏ moote mier, og þu gefur mier mijna Ovine ꝏ Flootta. Þu blessade Herra, sem med þinne Utlegd hefur opnad oss Vegeñ til þess eilijfa Fridar-Lands, lꝏttu þitt Lioos lysa oss, ad vier kuñum þennañ Veg ad gꝏnga, so ad vier uñ sijder iñkomner i Fodur-Landed, mættum med eilijfu Sigurhroosunar Verse prijsa þig, og forlysta oss um allar Alder, Amen.

## 20. Capitule.

### Um Barna-Mord Herodis.

DA Herodes sꝏ nu ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hann æsa reidur, og sende wt, og liet drepa øll Børn til Bethlehem, og i øllum heñar Endimerkum, Tvævetur og þaðann af Yngre, epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum.

MOrd og Bloods-Uthelling er ein hin mesta Vidurstygd i Guds Auglite, þvi sette hann þad Logmꝏl strax ondverdlega: Ad hver sem wt-

helltᴇ

hellte Mannsins Bloode, þess Blood skylde aptur fyrer Mannenn wthellast, 1. Mos. 9. 6. so Blood ætte ecke annad ad gylda enn Blood. Allt saklaust og rettlætt Blood wthellt, hroopar i Himenenn, og so sem krefst Hefndar af Drottne yfir hinum Blood-seka, eins og Gud sagde vid Cain: Þijns Broodurs Blood hroopar til mijn af Jordunne, 1. Mos. 4. 10. Og þo þessar Bloods-Hefnder kome ecke alltijd strax fram, þær auglysast þær samt um̃ sijder: Abners Bloods var hefnt æ Joab, þa David var daudur, 1. Kong. B. 2. 34. Spaamannanna Blood, sem Gydingar wthelltu, kom yfir þa ecke fyrre enn epter Christi Daga, so sem hann fyrer seger þeim hia Matthæo, Cap. 23. 35. Þvilijkar Bloods-Uthellingar eru nu ecke so almennelegar i voru Lande, enn til hins mættum vier þenkia er Johannes seger: 1. Joh. 3. 15. Hver sem hatar sinn Broodur, hañ er Mañdræpare; Hatred og Reiden gæanga nockud nærre þessare Mañdræps Synd, og marga hefur Reiden drifed til þess, ad wthella saklausu Bloode, so sem sia maa æ Herode, er vard æfa reidur, nær hann sa sig gabbadann af Vitringunum, jafnvel þo hann geymde um̃ Tijma þetta Satans Foostur i Hiartanu; til þess hañ feck betre Hendtugleika ad wtklekia þvi (sem meinast vered hafa æ odru Are þar epter) er hann liet fyrerfara Bornunum.

Eñ þu, christenn Madur, þegar Reiden flygur þier i Hiarta, þa bid Gud ad stilla þitt Ged, og

haf sem fyrst Ord og Verk i framme, medan þu reidur ert, þvi morgum hefur Reidin steypt i þann Vanda, wr hverium þeir hafa aldrei sijdan ratad til fulls, medan þeir lifad hafa. Og þo einn misbriode vid þig, þaa viñ þad ei fyrer Svolun Hefndargyrneñar og Reideñar, ad stela Hefndeñe fraa Gude, sem sagt hefur: Mijn er Hefnden, eg vil endurgialda, Rom. 12. 19. Annars snyr þu Guds Hefnd fraa þijnum Mootparte, yfir sialfañ þig, Ordskv. 24 17.18. og mun hun verda þier laangt þyngre, heldur enn þijn Hefnd vard honum. Haf þvi Postulans Raad: Rom. 12. 19. Gefed Rwm Reide (Guds) sem ecke aa þo ad skie med þvi ad bidia einum Guds Hefndar, heldur med þolenmoodre Lijdingu Orettareñs; Bidia maattu ad vijsu Guds Asiaar þar yfir, enn ecke þijnum Mootgiørda-Manne til Falls, heldur þier til Vidrettingar: Þad kenner Salomon, Ordskv. 20. 22. segiande: Seig ecke: Eg skal launa aptur illt; Bijd Drotteñs, hañ mun hialpa þier. Hugleid hvad margfalldlega þu giører i moote Gude, og þo lætur hann sijna Myskun yfir þier meiga meira enn sitt Rettlæte; Nu ef hañ fyrergefur þier þijn Tiu Þusund Pund, mun þier þaa ecke byria ad uppgefa þijnum Broodur þaa Hundrad Smaa-Peninga, sem hann er þier skyldugur? Matth. 18, 28. Þeir Bloodgiirugu faa ei haalfnad sijna Lijfdaga, seger Ritningen, Ps 55.24. Verda maa lijka ad Reiden stytte Dagana, med þvi Uñ-

roote sem hun hefur i Hiartanu, og hvad sem umm þad er, þaa er hitt vijst, ad hun afskræmer miog inn ra Manneñ, umturnar Gedsmunumum, og blindar Skilningeñ, eins og hun afmindar Lijkamañ, og tekur allt Rääd fraa hanns Limum; Þvi hafa vijser Menn kallad hana stutt Æde, þvi varla er annar Mismunur aa Ædenu og Reidenne enn sa, ad Æded varer leinge, enn Reiden lijdur fliott af, hverigur veit hvad hann giører, þvi hefur margur giort þad i sinne Reide aa skamre Stundu, epter hverin hann hefur leinge mꝏtt ydrast; Sie þvi hver Madur til Reide tregur, þvi Mañsins Reide verkar ecke Guds Rettlæte, Jac. 1. 19.20.

Herodes wthellte sinne Grimd yfir Ungbørnen i Bethlehem, og liet þau oll gialda þess eina Barnsins Jesu, hiaa hveriu þo vard eingen Søk funden; Samt varstu, minn Herra, komeñ til þess ad frelsa Ungbørnen, sem alla adra, og meiga þesse Ungborn sæl reiknast, ad þau fyrer þig letu sitt Lijf, þvi þar med fluttust þau sem fyrst inn aa Sælu Hofn eilijfrar Dijrdar. Tyranneñ þenkte, ad þar sem hañ liete slaa i Hel oll Ungborn i Bethlehems Takmorkum, þa munde Jesus fa Omøgulega undañ komest; Enn þetta hañs Vielræde vard ad litlu, þvi medañ þad framfoor, þaa dvalde Barned Jesus i Egyptalande. So er Gud almaattugur Hiaalpare allra þeirra sem aa hañ treysta, og kann vel ad leida þaa hiaa øllum Haaskasemdum, so þeir meiga segia med David: Ps. 118. 6. Drottenn

er med mier, þar fyrer hrædunst eg ecke, hvad meiga mier þaa Mennerner giora? Tijmenn var eñ ecke komenn, ad vor blessade Lausnare vilde wtgefa sitt Blood, þad hlaut ad bijda til þeirrar Stundar, sem þar til var aakvordud i Guds Fyrerhygg-iu, fyrre maattu eingver hanns Oviner snerta eitt Haar aa hanns Hofde, og skulum vier vita, ad eins hefur Drottenn enn i Dag Otal Vege til ad hindra og hepta Illsku-Þor Omildra Manna, eñ frelsa sijn Born af þeirra Hende. Oll þeirra Hofud-Haar eru talen, Matth. 10. 30. þvi maa ecke eitt af þeim falla aa Jord aan hanns Vilia: Aller þeirra Tijmar standa i hanns Hondum, Ps. 31. 16. þvi kann eingen Magt, hverke Diofuls nie Veraldar, ad auka þeim nockurt Angur fram yfir þad, sem hañs Vijsdooms-fulla Raad hefur nidurskamtad og leyfer. Þar uñ er eg fullviss, ad eingen Skepna, syneleg nie Osyneleg, eingen Magt, og eingen Svikraad, faa mier Mein unned, medann þijn hægre Hond, Drottenn, hlijfer mier, þvi vil eg allre miñe Ahyggiu uppaa þig varpa, hvar til þu virdest ad gefa mier Raad og Daad, so eg under þijnum Hlijfdar Skylde, meige vaka og sofa, lifa og deya, i Jesu Nafne, Amen.

## 21. Capitule.

Uñ Sorgar-Oped i Rama.

Nu uppfyllteſt hvad ſagdt er fyrer Jeremiam Spamañ, er ſeger: J Rama heſur heyrſt Kall ntikellar Kveinunar, Ops og Jlſrunar. Rachel æpte Sonu ſijna, og vilde ecke huggaſt læta, þvi þad var þotgiort uñ þa.

Ut af þeſſum H. Texta, ſkulum vid, Sealmijn, þenkia nockud uñ Sorgar-Op og Kveinun Guds Barna i Heime þeſſum. Hold og Blood er giarnann geſed fyrer goodum Dogum, og vill hafa ſig þeiged undann Kroſſe og Mootlæte, hafande þar æ meſta Vidbiood, enn ef vid forum ad ſkoda þetta betur, þa ſkulum vid ſiña, ad Kroſſenn er ockur i Raun og Sannleika heilnæmur. Moſes ſkrifar 5. Moſ. 32. 15. uñ Jſrael: Ad þa hann vard fullur og feitur, þa haſe hann orded lausſlaatur; Lijkur er honum i þeſſu hinn gamle Adam, hvor, þa hann nær ad alaſt æ Epterlæte og Velgengne, gioreſt hann lausſlaatur og Loſa-Wedis-fullur, i Gyrndum ſijnum og Tilhneigingum, ſem ſtrijda i moote Andanum, Gal. 5. 17. Eñ honum ſæ þa ecke aller i Slidrum halded, ad hañ ecke framfare ſijnum Gyrndum, þvi þad þurfa ſterk Bein til ad þola gooda Daga. Þegar Gud ann oſs Medlæteſins, þa miñeſt forblindud Nattura lijted þeſs Packlætes, ſem Skaparanum æ þar fyrer ad greida, ſo marger gleyma þar bæde Gude og ſiaalfum ſier: Guds Myſkun og

Naad,

Naad, sem atte ad uppvekia hia þeim Elsku og Audsveipne, og Þecking a sijnum eigen Vanmætte og Overdugleika, so þeim þiker sier faer Hluter Omogúleger, hvar fyrer þeir treystá uppa Holded, enn tapa þvi saña Trauste a Gude. Þañig vanbrwkar fordiorfud Nattura Drottenns Velgiorninga; Hier fyrer leggur nu hiñ alvijse Gud sijnum Bornum uppa Kross og Hormungar, so hañ þar med hafe i Taume Giælijse gamla Mannsins, og kenne þeim ad halda sig ecke saklaus; Þar vid kannast David, er hañ seger: Ps. 119. 71. Fyrer goodu vard mier þad, Drotteñ, ad þu lijtillæckader mig, so eg lærde þijn Rettinde. Þvi att þu, mijn Saal, ad taka med Þockum Typtan Drottenns, þvi hun er ecke hanns Reide-Teikn, heldur Elsku-Merke; Þvi hvern þann Son sem Faderenn elskar, þann typtar hañ og agar, Ebr. 12. 6. Þu skalt vita, ad hann hrygger Manneñ ecke wt af Hiarta, hann hrygger ad vijsu, enn hann tiaaer sijna Myskunseme aptur, epter sinne mikelle Myskun, Harmagr. 3. 32. Gud fer ecke ad straffa sijn Born, eins og Veralldar Menn þeir, sem giora þad af Hatre og Hefndargyrne; Heldur alijka og einn goodur Fader agar Barned, til ad iñþryckia hia þvi christelega Side: Þvi so sem Faderenn er Bornunum lyknsamur, so er Drotteñ myskunsamur þeim sem hann Ottast, Ps. 103. 13. Lijd þvi med Þolenmæde, þad hañ a þig leggur, og bijd i Vonenne epter hanns Hiaalpræde;

Miñst

Miñst þess alltijd er hañ seger: Akalla mig i Neyd-
enne, eg vil frelsa þig, og þu skalt vegsama mig, Ps.
50. 15. So mun hann ecke lꜳta þig freistast yfir
Megn, heldur gefa Freistinguñe þañ Enda, ad þu
fꜳer vel stadest, 1. Cor. 10. 13. og ertu þa sælle, kvei-
nande i Sorgunum, heldur eñ Veraldar Börnen,
fagnande i heñar Epterlæte; Þvi þar sem þeirra
Of-Kiætes Ender er Fordiorfunen, þar verdur
þiña Sorga Ender Fognudureñ i Himnenum.

Textenn seger framar: Ad Rachel hafe ækt
Sonu sijna, og ecke viliad huggast lꜳta.
Þegar Rachel Jacobs Kviña ꜳtte siñ Son Ben-
jamin, þa komst hun mieg hardt vid i Barns Fæd-
ingunne, og er hun formerkte ad hun munde bijda
þar Daudañ af, þꜳ vilde hun ad Barned skylde
heita Benoni, þad er, Sorgar Sonur, 1. Mos.
35. 17. 18. Eingu sijdur mꜳttu Barna-Mæd-
urnar i Bethlehem, i hverrar Takmorkum ad Ra-
chel var grafen, kalla sijn Börn Sorgar Syne,
hver ed Herodes liet deyda, er þær mꜳttu sior ꜳ
Bak þeim med Angist, og horfa uppꜳ, ad þau vo-
ru med Griñdar-fullu Ofbelde af Lijfe teken.
Nockud vidlijkt þessu kann oss ad Hondum bera,
ad vier meigum missa Börn og Astvine vora; Og
þo þetta sie Sorgar Efne, sem siꜳlf Nꜳtturan
kenner, og Otal Dæme syna, hversu Menn hafa
harmad Dauda sinna Astvina, þꜳ minnstu þess
þo, christen Mañeskia, ad þu grꜳter hooflega, og
setier Hormum þijnum vijst Takmark epter Guds
Orde,

Orde. Gud er sa sem gaf þier Børn og Astvine, þo so, ad þeir eru hans Eign epter sem madur, þvi maa hann giora vid sijna Eign hvad hann vill; Hann gaf þier Astvinena, edur laanade þier þa, so a hann frialst ad taka aptur sitt Laan nær honum vel-lijkar, edur rettara ad segia, flytia þa undan þier i þa Dijrdar Sælu, sem hann hefur fyrerhugad þier med þeim, asamt øllum sijnum Børnum epter þetta Lijf. Tak þvi þessum Guds Vilia med Þolenmæde, og ber þig ad laata hans Velþocknan, vera þijna Velþocknan: So giørde Job, er hann hafde mist sijn Børn og Audæfi; og skordade sitt Hiarta vid Drottens Vald, sem hefur ad giøra af sijnu hvad honum velþocknast; segiande: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn Drottens blessad ad eilijfu, Job. 1. 21. Þu skalt ecke þenkia, ad þad sie wtgiørdt um þijna Astvine, þo þeir deye tijmanlegum Dauda, hverke hvad ahrærer Lijkaman nie Saalena; Lijkamenn leggst i Jordena til roosamrar Hvijldar, og bijst þar under Forklaaran og eilijfa Vegsemd; Saalen fer i Hendur Drottens, hvar eingen Pijna snerter hana, Spek. B. 3. 1. So þreyngiast þeir þa gegnum Daudann, fraa Daudanum til Lijfsins, fraa Hiervistarennar Armædu til Himnarijkes Fullsælu. Þad eykur þier Sorgena, ad þu misser þeirra Sambwd; Enn laat þad sefa Sorgena og abla þier Glede, ad þeir eru heima hia Drottne, 2. Cor. 5. 8. og þioona honum

Dag

Dag og Noott i hans Mustere, Op. B. 7. 15. Von þeirra Vantrwudu endast med Lijfenu, þvi þeir vonudu a Christum einasta i þessu Lijfi: En Von Rettlætra heyrer einkum til þvi epterkomanda Lijfi, þvi þeir vita, ad fyrer Daudan leider Drotten sijna i Fride heim a sitt Fodurland. Syrg þvi ecke miog, Barned Guds, þo han leide sijna Heilaga fra Veraldarenar Voda til himneskrar Roosemdar; Lijt ecke so a þin yfirstandande Sorgar Dag, ad þu ecke under eins, og miklu heldur, alijter þan dijrdlega Fagnadar Dag, sem ecke hefur Auga sied, nie Eyra heyrt, edur i nockurs Mans Hiarta komed, 1. Cor. 2. 9. og þegar gefin er þijnum burtdaanu Astvinum, og þier er med þeim ætladur epter þetta Lijf, er þu skalt eilijflega med þeim vera a Fagnadar Hædum Himnana, hvar Gud þerrar øll Taar af sina Barna Augum, og Dauden mun ecke meir vera, ei Sorg nie Kveinan, Op. B. 21. 4.

HErra JEsu, gef þu oss øllum so ad afþreya þessa Lijfs Hormungar, ad vier þar epter mættum niootande verda eilijfs Lijfs Fagnadar, enn Raust þinar Lofgiørdar skal aldrei þagna a vorre Twngu, um øll Ar Eilijfdarenar: Un þu oss þessa, fyrer þijns blessada Nafns Saker, Amen.

# 22. Capitule.

### Um Dauda Herodis.

Enn

ENN þa Herodes var daudur, siat, ad Engell Drottens byrtest Joseph i Draume a Egyptalande, og sagde: Statt upp og tak Barned og Moodur þess til þijn, og far til Israels Jardar, þviad þeir eru dauder sem leitudu epter Lijfi Barnsens.

HJer af mꜳtt þu, Saal mijn, sia og merkia Guds stranga Rettlæte, sem hañ, i adskilianlegann Maata lætur ouglysast, med hordu Hefndar Straffe, a þeim, sem framfara i Ogudlegu Lijferne. Barna Mordingeñ Herodes hafde leinge genged fram i Gudleyse, og brwkad sijn kongleg Vold, er hañ þꜳde yfir Gydingum, med Grimd og Hardydge, og nu loksins fekk hañ hinn herfilegasta Dauda: Sagna-Meistararner segia hann hafe vered lifande uppetenn af Modkum, med odrum fleire Plꜳgum, i hverium hann Lijf sitt endade; Og a vidlijkañ Hꜳtt kann hverium odrum Guds Ovinum ad gꜳnga, þegar hañs Reide eys yfir þa Fordiorfuneñe, nær minnst varer, þar sem hiner Gudhræddu, sem geymdu Drotteñs Vegu, skulu sia hanns Goodsemd, og gledia sig i hanns Hialpræde. Athuga þetta hverttveggia, syndugur Madur: Drotteñs Rettlætes Reide yfir þeim Ogudlegu, og Drottenns fodurlega Nꜳd yfir þeim Gudhræddu. Flijtgie þier i Hug, ad giora nockud þad, sem Gud hefur bañad, þa lꜳt

þier

Þier under eins til Hugar koma Guds Rettlætes Straff, sem þar ꝍ epter fylger: Læt sem þier fyrer Augum sie sꝍ Kvala-Stadur, hvar Gud vill þier i Skaut gialda fyrer þijn vondu Verk. Vit, ad þo ordugt þyke ad krossfesta Holded, þa er þo sꝍrare Guds Reide Hite, sem brennur allt til nedsta Helvijtes. Læt þvi ecke Diofuls, Heims nie Holds Fortolur meira hiꝍ þier meiga enn Guds Orda Sannleika, sem aldrei kann ad bregdast.

J annann Stad, þa þier hugsast ad giora þad nockud sem Gude er þægelegt, þa ebl og nær þann Þꝍnka med Jhugan þeirra Nꝍdar Launa sem hanns Myskun heiter þeim froomu, og yfirgꝍnga alla tijmannlega Mune, þvi þad er sꝍ Fesioodur, hvorium hvorke kann Molur nie Rid ad granda, nie Þioofar fꝍ eptergrafest, Matth 5. 20. Læt þvi sem David tale þier i Eyra: Ps. 37. 37. Vertu meinlaus, og haga þier rettelega, þvi ad slijkum mun ad sijdurstu vel gꝍnga.

Hier ad auk skalt þu merkia, ad hvar sem þu ert staddur, eirn edur hiꝍ odrum, i Myrkre edur Byrtu, wte edur inne, þꝍ sier og skodar Drottenns alskygna Auga allar þijnar Athafner, þvi fyrer honum eru aller Hluter berer og nakter, Ebr. 4. 13. einnenn þau innstu Hiartans Fylsne. Og þo þu kunner dyliast fyrer Monnum, þꝍ kann hann, sem sier hvad i Myrkrunum er huled, ad betala þier opinberlega med Straffe og Refsing, ef þu syndgꝍr vijsvitande uppꝍ Nꝍdena. Og þo Hegningen

framkome ecke strax ad ferskum Giorninge Synd-
aña, þa auglysist hun um sijder, þegar Mæler þeir-
ra er uppfylltur, ef ecke er fyrre vid giørt. Þeink
þvi ecke med sialfum þier, þo Drottenn þeige um
Stund, ad hañ mune þier lijkur vera, Ps. 50. 21.
edur hann hafe forgleymt þvi, og hann mune þad
aldrei framar sia, Ps. 10. 11. Þvi Guds Ord
eru þad: Ad hvert þad Tre, sem ecke ber goodañ
Avoxt, skal upphøggvast og i Elld kastast, Matth.
3. 10. Þegar ad Christur leitade fordum Avaxt-
ar a Eikenne, og fann eckert nema Bloden toom,
þa formælte hañ henne, so hun visnade upp allt ad
Rootum, Cap. 21. 19. Vera kañ, ad þeir finn-
est i Akre Christneñar, sem lijkiast mættu vid þessa
Eik, þeir ed syna sig i þeim ytre Guds Þiodnustu
Verkum, heyra Orded og brwka Sacramenten,
enn færa þar eingann verdugann Avoxt af, jata
Trw sijna a Gud, enn gleyma Verkunum, an
hverra Trwen er daud Trw, segiast elska Gud, eñ
lifa vijsvitande i þeim Syndum, sem honum eru til
Stygdar: Þetta er ad hafa Skin Gudhrædslun-
ar, enn afneita hennar Krapte, 2. Tim. 3. 5.
Þvi er hætt vid, ad þegar Herrañ kemur, og finn-
ur ecke nema þvilijk skinen Blod, þa kunne hañ ad
formæla þessum vøkvalausu Triam, og Guds
Reide-Eggse upphræta þa, so þeir kastest i Oslock-
vannlegañ Elld, nema þeir, medañ þar segest: J
Dag, snwe sier til Drottenns fyrer sanna Ydran.
Eñ þad er aumkunarlegt, hversu ad Gud þessarar

Ver-

Veralldar forblindar so Hugskot margra, ad þeir undandraga Dag fra Dege sijna Yfirboot, forsima so Længlundar-Ged Guds, sem vilde leida þa til Apturhvarfs a Nadarennar Tijma, allt til þeß Daudenn dregur þa naudúga, fra Fysn Augnanna, Gyrnd Holdsins og drambsomu Lijferne, 1. Joh. 2. 16. Og er þad miøg under Von, hvernenn þeirra Utfør verdur, sem varla giørdu annad alla sijna Æfi, enn ad safna Guds Reide, so sem i annann Siood, yfir Høfud sier, Róm. 2. 5. Þvi er þad eingen Giæfa, þo þeim Ogudlegu meige umm Tijma luckast allar sijnar Athafner, þvi þar minnst vater, verda þeir skyndelega ad eingu, og taka eitt Enda med Skelfingu, seger David, Ps. 37. 19. Halldtu þvi, Saal mijn, þad hitt mesta Boda, ad sofa i Syndunum, og lata Satan dilla sier a Athugaleysesins Hægende, med þessum Danse: Herrann tefur enn ad koma, Matth. 24. 48. enn vita þo Vilia Drottenns, sem er, ad vier verkum vora Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Phil. 2. 12. Þvi sa Þioon, sem veit Vilia sijns Herra, enn tilbijr sig ei, og giører hann ecke, hann mun slegenn verda morgum Høggum, Luc. 12. 47. Sa hefur þvi betsta Luckunnar Hlutskipte nad, sem asetur sier seint og snemma, ad fordast Heimsins Hreckia-Stigu, og hefur ætijd Gud fyrer Augum sier; So hvenær sem Daudenn ad kemur, ad hann yfirfalle hann ecke i Verkum Myrkrana, edur Svefne Holdsins Dofennleika, helldur ad Lampenn mætte

